# TÍMARIT

## Þjóðræknisfélags Íslendinga



Tólfti árgangur, 1930

Ritstjóri: RÖGNVALDUR PÉTURSSON




WINNIPEG, MANITOBA

Gefið út af Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi.

1930

# EFNISYFIRLIT

# Þiðranda-Kviða.

## Kantata eða Klið-kviða.

Eftir Stephan G. Stephansson.

Þær dögunar dísirnar níu
Draumlönd sín hafa um aldirnar tíu
Varið frá Þingvelli þvert yfir land
Þokast frá túnjaðri inn í hvern bæ.
Hafa þær aðsetur æ
Birtuna leiða yfir sveitir og sæ!

### I. Viðkvæði.

Enn heiðir af hæsta fjalli
Að hafs-auga brún
Enn viðrar vori hlýju!
Úr valnum af Þiðranda falli
Rís og ríður í tún
Hún
Dagbjört og dísir hennar níu.

### II. Jólaboðið.

Síðu-Hallur:

Nú haustar á heiðum
Og hádegin rökkva
Og mörg lauf af meiðum
Í moldina sökkva.
Senn kólnar í kofa
Og kaf-fennir glugga
Og svanavötn sofa
Í svellbláma skugga.

Fyrst sumrinu hallar um sinn,
Þá setjumst við þéttara inn!
Að langelda þýðunni, Þórhallur minn.
Ef árin vor eldast,
Skal æskan vor ei kveldast,
En varmara nær-tengjast vina-hópurinn.

Við missa þig ei megum,
Því mætastan þig eigum
Og spakasta spámanninn.
Til jólaboðs míns, vinur, þig eg vinn!

Hjá ástvinum öllum,
Hjá ættingjum snjöllum,
Svo konum sem körlum
Við skerpum skemtiræður,
Við skörum fornar glæður,
Við ljóðum lauf á skóginn
Og lóuna í móinn,
Og vermum svo veturinn.
Og þar verður Þiðrandi kominn
Með þrekvirkin.

En hvað er það, sem þögnum veldur,
Þórhallur, ef getið er
Þiðranda til sæmdar sér,
Sé þó ungur, vítt um fer
Erlendis og heima hér —
Þar um ertu hljóður heldur."

III.

Þórhallur.

"Veit eg þinn arfi
Verður í starfi,
Þjóðvaxtar þarfi
Inn þegnskapar djarfi,
Hnípi eg yfir hljóðum grun,
Hann er á hvarfi!

Gröm og gömul
Goð vor óblætin
Norpa í heimalands hofum;
Öll eru í ellibelg
Orku skriðin.
Verður þó aldrei útbygt.

Langsótt landnám
Lýða allra verður
Afturför aldur lyfjar
Áföll hinna ungu
Veldur aldamótum;
Öll er þó siðabót sjálfsögð.

Góðvinur, Hallur, þó þér hlýði eg,
Haustboði þínu kvíði eg;
Voðalaus ei verður nú
Veizlan sú."

IV.

Síðu-Hallur:

"En böl ei bítur á oss,
Ef bíður þú, vinur, hjá oss;
Þú lesa kant úr feiknstöfum
Fegurstu trú."

V. Veizlan.

Glatt var á hjalli,
Gaman og yndi
Kotrosknum karli
Konur á palli,
Sem festarölsfagnaður myndi.

Gullbaugar, glitseymdur lindi
Glóðu sem Norðljós í vindi.
Heiðhvítu-falds yfir fjalli
Brosfagur blámi og mjalli.

Unun og hlýja var inni,
Úti gekk stormur og hregg,
Haustsvalt með oddi og egg.
Næðandi viðu og negg.
Hlóð fyrir hlið og dyr
Hríðefldur norðan byr.

VI.

Þórhallur:

"Vofeigleg er veður gnótt.
Viðsjált hefir gestum þótt
Fjarlæg veizlusætin sótt
— Söguleg mun verða nótt. —
Yzt er á bekkjum autt og hljótt.

Þó er hér margur göfgur gestur,
Gleði nóg og skenkt er ótt;
Þiðrandi er þeirra beztur!

Úti þýtur helreið hríða,
Hlustið til!
Þar fer meira en bakki af byl:
Feigðar sog um loftið líða!
Sagga-fjúk með sama hljóði,
sem á ljórann sletti blóði,
Freyðir upp um þekju og þil.

Gangi hér enginn út í nótt!
Ilt mun þar í myrkrin sótt,
Inn mun fæstum unt að skríða."

VII.

Vakan þraut með þunga svefni,
Þiðrandi hlaut vöku-efni;
Knúð var hurð og kvatt var dyra,
Kappsamlega — ákaflega.

VIII.

Þiðrandi:

"Ilt til fregna, ef til dyra
Þorir enginn gestum gegna,
Látum aðra liggja kyra,
Síðförunum vega-viltu
Veðurtryltu,
Uppgefnum við húm og hregg!
Þeir skulu engir bana bíða
Blindrar hríðar,
Boðnir undir bæjarvegg."

IX.

Glotti tungl við hríðar hrannir,
Hilti dagsbrún yfir fannir,
Sást í húsi handaskil,
Rökkrið var að rofa til.

Þórhallur, sá eini er
Andvara er fann á sér,
Sem að gæti svefninn losað. —
Sami á honum lúinn lá:
Leyndra slyza veður-spá,
Glaðvaknaður, gat ei brosað,
Skygndist yfir sængur-salinn,
Svipaðist milli bekkjanna,
Ekki varð sú álykt falin:
Auð var rekkjan Þiðranda.

X.

Þórhallur:

"Allir höfum of seint vaknað,
Á var bann!"
— Þiðranda úr sal er saknað —
Sagði hann.

XI.

Borinn inn á beð
Bana-sár,
Á bólstrum lá Þiðrandi bleikur með
Blóðstorkið hár. —
Alt var sem andsvar þessi knýi:
"Hvað hefir valdið hans vígi?"

XII.

Þiðrandi:

"Heyrða eg gestareið í garðinn!
Glámeygur máni
Gægðist úr grímu hríðar
Gráfennið á.

Niðmyrkar, nátt-klæddar
Fóru nornir níu
Norðan tún.
Helbleikar um hönd og brún
Stóðu á hlaði hjá mér.
Þær voru það, sem þannig unnu á mér.

Drifhvítar, dagbjartar
Dísir að sunnan
Túnfæti náð höfðu níu,
En nær ei komist —
Möttlaðar mjúkviðris
Morgun-gæzku. —

Augum þó aðeins til mín næðu,
Af þeim fanst mér stæðu
Geislar frá ársól og æsku!

Mér hefir mætt
Eigi mikið tjón.
Út er mér blætt
Við yndis sjón."

XIII.

Síðu-Hallur:

"Það veiztu, Þórhallur,
Að til Þváttá flutti eg
Rekinn frá Hofi af harmi;
Enn er óráðin
Örlaga gátan,

Hver þau víf vóru,
Sem vágu Þiðranda. — — —
Eitt er það skarð í ætt óbætt.
Hvað vitrast þér, spámaður?"

XIV.

Þórhallur:

"Út af sloknaður
Átrúnaður
Endist til ills.
Hann verður bernskunni bani.

Feigar fylgjur
Fornra siða
Vörpuðu Þiðranda' í val sinn.
Æskunni eru þær
Örlaga nornir,
Afturför. Skipar svo sköpum.

Glögt í grun
Get eg séð, hvað vera mun
Það, sem réð Þiðranda falli,
Þessi goð vor fornu, hrunin af stalli!

Fegursta frænda sinn
Flytja vildu í himininn,
Þeirra og þinn —
Þiðrandi er þar kominn
Til fylgjanna forfeðra sinna.
Því hvert sem þú snýr,
Og hvar sem þú býr,
Þá hnígur hver hugur til sinna!"

XV.

Síðu-Hallur:

"Því er nú, Þórhallur,
Þér um varir
Léttu brosi brugðið?"

XVI.

Þórhallur:

Eg sé gegnum tíma, holt og hæð,
Hopaður er úr landi
Sérhver illur andi,
Sérhver nætur-nornin skæð,
Illar dísir dimmra er alda

Drápshríð æstu um grímu kalda.
Göfugur, ungur, þrauta þorinn
Þiðrandi er endurborinn.

Uppi verða enn
Svo árvakrir menn,
Sem veizlur halda og vaka.
Og vorfuglar, sem með heima-alin hljóð
Allt hörkuðu af meðan veturinn stóð,
Með sólroð í vændum sér lyftu upp í ljóð
Og sumarið kváðu upp úr klaka."

## XVII. Niðurlag.

Þó að fylgjur úthalls alda
Íslands niðja marga, tíðum
Feldu um nóttu norna-kalda
— Skortur og ótíð unnu á lýðum —
En aldrei grófu þær ættar-bogann!
Ætíð, þegar dagur rann
Sumarhýr með sólarlogann:
Dísir ljóss og lífsins níu
Ljómuðu upp í túni þjóðar,
Glaðar, góðar.
Sama munu þær siðnum halda
Sólaldir um aldir alda.



# Alþingishátíðin,

eftir Jón J. Bíldfell

Fyrir nærri fimm árum síðan var hafinn undirbúningur meðal þjóðar vorrar heima, til þess að minnast hins merkilega atburðar í sögu norrænna þjóða, að Alþingi Íslendinga yrði þúsund ára gamalt árið 1930. Það var ekki eingöngu elzt allra löggjafarþinga á Norðurlöndum, heldur og um víða veröld. — Kaus Alþingi nefnd manna til að undirbúa hátíðarhöld þessi, og í nefndina voru skipaðir: þáverandi bæjarfógeti, herra Jóhannes Jóhannesson, formaður, herra Ásgeir Ásgeirsson fræðslumálastjóri, ritari, en meðráðendur: forsætisráðherra Íslands, ex officio; fyrverandi forsætisráðherra hra. Sigurður Eggerz, dómsmálaráðherra hra. Jónas Jónsson, verkstofustjóri hra. Pjetur G. Guðmundsson og prófessor hra. Magnús Jónsson.

Í febrúar 1926 var hátíðarmál þetta rætt á þingi Þjóðræknisfélagsins, og svo frá því gengið, að stjórnarnefndinni var falið að leita sér upplýsinga um það, og koma fram með tillögu á næsta þingi um þátttöku félagsins. Til þess að hafa þetta sérstaka verk með höndum, voru þessir þrír menn kosnir úr stjórnarnefndinni: Jón J. Bíldfell, Jakob F. Kristjánsson og Árni Eggertsson.

Nefnd þessi starfaði svo það sumar og safnaði ýmiskonar upplýsingum, er hún svo lagði fyrir þjóðræknisþingið veturinn á eftir. Mælti hún fastlega með því, að Þjóðræknisfélagið skipaði þegar fasta nefnd í þetta mál, er strax væri látin taka til starfa, því nóg væri að gera.

Síðla haustsins 1926 barst svo forseta Þjóðræknisfélagsins bréf líka frá formanni Undirbúningsnefndarinnar í Reykjavík, þess efnis, að óskað var eftir að Þjóðræknisfélagið tæki mál þetta á dagskrá. Var nefndarálitið og bréf þetta lagt fyrir Þjóðræknisþing í febrúar 1927 og nefnd manna kosin, er síðar bætti við sig, unz hana skipuðu að lokum 12 menn.

Nefndin tók þegar til starfa. — Margbrotið verk lá fyrir höndum. Fyrst var að kynna almenningi málið og vekja athygli fyrir hátíðinni meðal fólks yfirleitt. Til þess voru ferðir farnar fram og aftur um þvera álfuna. Næst var að komast að hagkvæmum samningum við eitthvert skipafélag um ferðina. — Lagði nefndin aðaláherzluna á að fá fargjöld færð niður úr því, sem þá voru. Þá stóðu fargjaldataxtar svo, að á þriðja farrými kostuðu farbréf fram og til baka milli Montreal og Norðurlanda $196.00, en með þeim var Ísland flokkað; til Khafnar $172.00, og til Englands $150.00. Öll sanngirni mælti með því, að með beinni ferð, er farin yrði frá Montreal til Reykjavíkur, yrðu farbréf ekki seld dýrari en þau eru til Englands. En hér var við rammann reip að draga. Ekki var hægt að leigja boðlegt skip til fararinn-

ar. Til þess skorti fé. En með því eina móti hefði nefndin getað ráðið fargjaldinu. Varð því að ganga samningaleiðina að skipafélögunum.

Loforð fengust, fyrir vinsamlega milligöngu skipafélagsins danska, The Scandinavian American Line, að við þetta sérstaka tækifæri skyldi Reykjavík vera látin njóta sömu hlunninda og Khöfn, það er, að farbréf yrðu færð niður úr $196.00 ofan $172.00. En nefndin var ekki ánægð með það. Öll gáfu skipafélögin til kynna, að ef fengist álitlega stór og ákveðinn farþegahópur, væri ekki fráleitt, að slakað yrði til betur. Öll játuðu þau, sem og vitanlegt er, að sjóleið væri skemri til Reykjavíkur en til Glasgow. Er munurinn rúmar 400—500 mílur enskar, eftir því hvoru megin siglt er við Nýfundnaland. En svo höfðu þau öll innbyrðissamband sín á meðal, sem nefndist "The North Atlantic Steamship Conference", er ákveður fastagjald milli Ameríku og hinna ýmsu staða í Norðurálfunni. Ekkert félaganna mátti brjóta bág við þenna samning nema með samþykki hinna. Óhugsandi var að slíkur samningur fengist, eftir að einkasamningur væri gerður við eitthvert félagið. Þá mundi það félag sízt óska eftir niðurfærslu, né hin láta sig það nokkru skifta, er útséð væri um að þau gætu haft hag af því. Var því um að gera, að binda ferðalagið engum föstum samningi, fyr en frá fargjaldi væri gengið. Fengist það fært enn þá neðar, var ferðamönnum sparað mikið fé. Stóð nefndin nú í þessu stími, þegar á hana var ráðist með þungum ásökunum, og samningur gerður af einstökum mönnum við eitt meiriháttar línuskipafélag, að undirbúa ferðina heim. Þóttist félag þetta þegar í stað hafa tekið við umboði fyrir þessari ferð, og var þá eigi um fargjaldalækkun að spyrja eftir það.

Samdi þá loks Heimfararnefndin við "The Canadian Pacific Ry." um ferðina. Niðurfærsla fékst allmikil með járnbrautinni, en með farbréfaverðið varð að sitja við það, sem komið var. Sérstaka lest lagði félagið til frá Winnipeg. Í henni voru 11 ferðavagnar, 4 flutninga- og póstvagnar og einn greiðasöluvagn. Ennfremur lagði það til tvö skip, annað til austurfarar, skipið "Montcalm", hitt til vesturfarar, skipið "Minnedosa". Er þetta fyrsta og eina skiftið, enn sem komið er, sem farin hefir verið hringferð beina leið frá Ameríku til Íslands.

Kl. 9. að morgni fór fólkið að drífa inni kl. 10 að morgni 12. júní s.l. Vikuna þar á undan hafði ferðafólkið verið að drífa að úr öllum áttum, því Heimfararnefndin gerði sér far um, að hópurinn yrði sem stærstur, sem héðan færi.

Klukkan 9 á miðvikudagsmorguninn 12. júní, fór fólkið að drífa að vagnstöðinni, þrátt fyrir þétta gróðurrigningu, sem á var. Ekki aðeins ferðafólkið, heldur vinir þess og kunningjar, og aðrir Íslendingar sem þangað komu til að kveðja heimfarendur. Kl. 9.30 var orðið

svo þéttskipað af fólki á vagnstöðinni, að varla varð þversfótað. Allir virtust glaðir og ánægðir, jafnvel þeir, sem þráðu að fara, en gátu það ekki ýmsra orsaka vegna. Þegar ofan á járnbrautarstöðina kom, var þar til staðar hinn mikli lúðraflokkur Princess Pat hersveitarinnar, til þess að "syngja menn úr hlaði". Lék hann allskonar íslenzk lög meðan fólkið dreif að, beið á stöðinni, talaði saman og kvaddist. Þegar eimlestin var ferðbúin, flutti lúðraflokkurinn sig upp á hliðarpallinn í lestaskálanum, ásamt fólkinu, sem komið var til að kveðja heimfarendur, og það síðasta, sem vér heyrðum, er lestin skreið af stað í austurátt, var þjóðlagið íslenzka við hið ódauðlega kvæði sr. Matthíasar: "Ó, guð vors lands".

Á ferðinni austur til Montreal bar fátt til tíðinda. Veðrið var yndislegt. Döggin glóði á grasinu og á trjánum, þegar regninu létti, mjög skömmu eftir að lagt var af stað. Ryklaust var með öllu alla leiðina, og ferðafólkið naut til fulls hins breytilega útsýnis, sem er á þeirri löngu leið.

Þegar til Montreal kom, mættu yfirmenn Canada Kyrrahafs Eimskipafélagsins hópnum á vagnstöðinni og sáu um, að allir kæmust tafarlaust niður að höfninni og um borð í skipið "Montcalm", sem þá lá ferðbúið. Ennfremur mætti hópnum frá Winnipeg fjöldi samferðafólks frá austur- og miðfylkjum Bandaríkjanna, sem beina leið hafði farið frá Montreal. Svo, þegar skipið lagði af stað frá Montreal, var tala þeirra, sem með því vóru, undir umsjón Heimfararnefndarinnar, á leið til Íslands, 368 manns.

Eg man ekki eftir, að eg hafi nokkru sinni verið í glaðari hópi Íslendinga, en þeim, sem sigldi þá frá Montreal (14. júní). Ánægjan ljómaði á andlitum fólksins. Gleðin yfir því að fá að sjá ættlandið innan fárra daga, og að fá að njóta þeirrar ánægju að heimsækja það á hátíðisdegi þess.

Sjóferðin heim mátti heita ágæt. Að vísu var allheitt og þröngt á skipinu fyrsta daginn. En úr því var bætt, og svalinn, þegar út á rjúmsjó kom, var þægilegur. — Á ferðinni bar fátt til tíðinda. Menn skemtu sér við leiki, söng, samræður og annan gleðskap, sem á slíkum ferðum tíðkast; þar á meðal ræður, er fluttar voru af þar til völdum mönnum — um Alþingi hið forna. Tíminn leið fljótt; og nálega áður en við vissum af, vorum við komin í námunda við Ísland, þrátt fyrir allsterkan mótvind, er skipið átti við að etja hátt upp í sólarhring.

Föstudaginn þann 20. júní var meiri ókyrleiki á mönnum heldur en dagana á undan. Menn gengu út og inn á skipinu og virtust hvergi eira. Þeir gengu fram á skipið og horfðu stöðugt í áttina, sem það sigldi í. En ekkert sást nema úlfgrá þoka, sem hékk í loftinu og huldi útsýni alt nema tiltölulega lítinn blett af sjónum í kringum skipið, þar sem öldurnar risu og féllu hóglátlega. Rétt eftir hádegið barst skipstjóranum á "Montcalm" loftskeyti, þar sem honum var tilkynt, að strandvarnarskipin íslenzku, Óðinn og Ægir, væru vænt-

anleg til móts við "Montcalm", langt fram á Faxaflóa. Oss, sem með skipinu vorum, skildist strax, að hér væri um virðingarvott að ræða af hálfu stjórnarinnar á Íslandi, því hún ein á ráð á þeim skipum, og heimfarendur allir urðu hugfangnir af velvildinni, sem slíkur höfðingsskapur bar vott um. Á milli kl. 8 og 9 e. h. kom landið í augsýn. Það var Reykjanesskaginn, og skömmu síðar sáust varðskipin koma. Þau voru fagurlega skreytt fánum og að öðru leyti vel og tignarlega búin. Með þeim komu á milli 60 og 70 manns frá Reykjavík, þar á meðal tveir af ráðherrum stjórnarinnar, þeir Jónas Jónsson dómsmálaráðherra og Einar Árnason fjármálaráðherra. Forsætisráðherrann, sem ætlaði að vera með í förinni, hindraðist, svo hann gat ekki komið. Einnig undirbúningsnefndarmenn Alþingishátíðarinnar allir. Auk þeirra voru margir Alþingismenn, embættismenn úr Rvík og nokkrir Vestur-Íslendingar, þar á meðal þeir séra Rögnvaldur Pétursson og Ásmundur P. Jóhannsson, sem voru farnir heim á undan aðalhópnum. Þegar skipin mættust, lögðust varðskipin við hliðina á "Montcalm", og stigu þeir, sem á þeim komu, um borð á farþegaskipið. Eftir stutta dvöl í aðalsetustofu skipsins, var gengið niður í borðsalinn á fyrsta farrými en þangað höfðu áður safnast allir Íslendingar, sem með skipinu voru. Þegar niður í borðsalinn kom, gerði séra Rögnv. Péttursson undirbúningsnefndarmenn Alþingishátíðarinnar kunnuga fyrir þeim, sem þar voru komnir.

Fyrverandi bæjarfógeti og forseti Undirbúningsnefndar Alþingishátíðar, hra Jóh. Jóhannesson, tók þá fyrstur til máls. Beindi hann orðum sínum aðallega til Heimfararnefndar Þjóðræknisfélagsins og þakkaði henni starfið. Bauð hann hana og alla gesti, er með skipinu voru, hjartanlega velkomna til landsins. Svaraði Jón J. Bíldfell, forseti Heimfararnefndar Þjóðræknisfélagsins, ræðu forsetans, og þakkaði fyrir hönd Heimfararnefndarinnar hina vinsamlegu kveðju og alla samvinnu og aðstoð sem Heimfararnefndin hefði orðið aðnjótandi frá hálfu Undirbúningsnefndarinnar. Ávarpaði þá ritari Undirbúningsnefndarinnar, hra. Ásgeir Ásgeirsson, fræðslumálastjóri og forseti sameinaðs þings, gestina og hina erlendu fulltrúa, er með skipinu voru, bauð þá alla velkomna til hátíðarinnar. Er hér var komið sögunni, var skipið komið inn á höfn og lagst, og söngflokkur Reykjavíkur og Akureyrar komnir um borð ásamt fleiri gestum úr landi. Eftir fræðslumálastjóra tók hra. Einar H. Kvaran rithöfundur til máls. Skýrði hann aðkomumönnum frá því, að efnt væri til samkomu í öðru kvikmyndaleikhúsi Reykjavíkur, Nýja Bíó, eftir hádegi daginn eftir (laugardag), og þangað væri öllum Vestur-Íslendingum boðið. Tók þá söngflokkurinn við að skemta. Eftir að "Ó, guð vors lands" hafði verið sungið, og hljóðfæraflokkur skipsins skemt með hljóðfæraslætti, neyttu menn hressingar, er fram var reidd af skipsþjónum, og heilsuðu upp á kunningja og vini. Kom

nú Reykjavíkurbáturinn "Magni" fram og með honum Knud Zimsen borgarstjóri og söngflokkur K. F. U. M., sem orðlagður er fyrir listfengi sitt. Bauð borgarstjóri Vestur-Íslendinga velkomna með snjallri ræðu, en séra Jónas A. Sigurðsson svaraði. Skemti nú söngflokkurinn fólki fram eftir nóttunni. Allmargir úr Reykjavík komu fram á skipið um kvöldið til að heilsa upp á kunningja og vini, þó miklu færri en vildu, því tími vanst ekki, því ákveðið hafði verið, að allir aðrir en þeir, sem vissa bústaði áttu hjá frændum eða kunningjum í bænum, yrðu í skipinu um nóttina.

Á laugardagsmorgun kl. 7 var ákveðið að fara í land, og sýndi landsstjórnin okkur aftur þá velvild, að senda strandvarnarskipið Ægi út á ytri höfnina, þangað sem "Montcalm" lá og flytja fólk og farangur í land endurgjaldslaust.— Þegar á land var komið, voru bílar til reiðu að taka fólkið suður á Landsspítalann nýja, er landsstjórnin hafði verið svo góð að ljá þeim, sem á vegum Heimfararnefndarinnar komu, og ekki áttu athvarf annarsstaðar, án endurgjalds. Hús það er hið prýðilegasta, byggt úr steinsteypu og stáli; er þrílyft, með öllum nýjasta útbúnaði og þægindum. Herbergin og salirnir eru rúmgóð og vel hátt undir loft, heitt og kalt vatn í hverju herbergi og gluggar allir á hjörum og falla út, eins og á flestum byggingum í Rvík. Baðker og steypiböð er á hverju lofti og byggingin hituð með heitu vatni. Rúmar hún um 250 manns. Innanhúsmuni alla hafði Heimfararnefndin keypt sjálf, og höfðu umboðsmenn hennar, þeir séra Rögnvaldur Pétursson og hra. A. P. Jóhannsson, gengið prýðilega fram í að koma öllu sem haganlegast fyrir, svo að það var alveg eins og að koma heim til sín að koma þangað inn. Hvert herbergi var uppbúið og umsjónarfólk við hendina, til að sjá um að alt kæmist á sinn stað og væri í röð og reglu.

Staðurinn, sem spítalinn stendur á, er einkar vel valinn. Hann stendur sunnan í Skólavörðuholtinu. Kringum hann er þurt og þokkalegt og hefir stór grasflötur verið ræktaður alt umhverfis bygginguna með mikilli fyrirhöfn og kostnaði, og hafði höfrum verið sáð í allstóran part af fletinum, sem voru svo þroskamiklir, að þeir tóku manni undir hönd eftir sex vikna sprettu. Útsýni frá spítalanum er hið fegursta. Skildinganes, Skerjafjörður, Bessastaðir, Öskjuhlíð, Álftanes og hafið blasa við, og hefir það ekki lítið að segja fyrir þá, er við heilsuskort eiga að stríða og eiga að búa þar lengri eða skemri tíma, á komandi árum.

Eftir að ferðafólk var búið að koma sér fyrir í þessum nýja bústað sínum og hafði neytt miðdegisverðar, fóru menn til boðsins í Nýja Bíó. Er það myndarlegt hús og stendur í miðbænum við Bankastræti. Þangað safnaðist múgur og margmenni, svo að aðalsalur leikhússins varð fullur. Til boðs þessa hafði verið stofnað af borgarstjóra Knud Zimsen og öðrum leiðandi Reykjavíkurbúum. — Borgarstjóri stýrði samkvæminu sjálfur og bauð Vestur-Íslendinga velkomna til Reykjavíkur. Auk hans fluttu ræð-

ur þeir hra. Einar H. Kvaran rithöfundur, hra. Árni Pálsson, dr. Guðm. Finnbogason og séra Jónas A. Sigurðsson. Óþarft er að taka það fram, að ræður þessar allar voru snjallar, og innileg velvild lýsti sér í hverju orði bræðranna heima í garð Vestur-Íslendinga. Á milli ræðanna og að þeim loknum skemti söngflokkur K.F.U.M. gestunum. Er sá flokkur mjög vel æfður og á yfir söngkröftum að ráða, sem eg gæti trúað að ættu eftir að heilla fleiri en Íslendinga, ef hann gæti að ráði látið til sín heyra meðal erlendra þjóða.

Á miðvikudag þann 25. júní, kl. 1.30 e. h., var fundur haldinn í Háskóla Íslands, undir stjórn rektors háskólans, prófessors Einars Arnórssonar, og voru til þess fundar boðaðir mentamenn ýmsra þjóða. Gat rektor þess að fundur sá væri haldinn til þess að taka á móti ávörpum frá erlendum mentastofnunum, og einnig sökum þess, að Háskóli Íslands hefði ákveðið að sæma nokkra Vestur-Íslendinga doktorsnafnbót. Á meðal þeirra sem ávörp fluttu frá erlendum mentastofnunum voru þessir: Háskólakennari Sveinbjörn Johnson frá Illinois háskólanum; Guðmundur Grímsson dómari, frá háskólanum í Norður Dakota; Professor Arvold frá Landbúnaðarháskóla Norður Dakota; Dr. Dieffenbach frá Pennsylvania háskólanum; Dr. Bradley frá John Hopkins háskólanum; Dr. Gould, frá Chicago háskólanum; Dr. Eliot frá Harvard háskólanum; dr. B. J. Brandson, frá háskólanum í Manitoba; Professor J. F. Auer frá Tufts háskólanum í Massachusetts og prófessor Halldór Hermannsson, frá Cornell háskólan í Ithaca, N.Y. Eftir að ávörp þessi höfðu verið flutt, var Vestur-Íslendingum sýndur virðingar- og vináttuvottur á ný, með því að Háskóli Íslands sæmdi eftirtalda menn úr þeirra hópi doktorsnafnbótum: Dr. B. J. Brandson, frá Winnipeg; Guðmund Grímsson dómara, frá Norður Dakota; Sveinbjörn háskólakennara Johnson, frá Illinois; séra Rögnv. Pétursson, frá Winnipeg; Joseph T. Thorson, K.C., frá Winnipeg; Hjört Thordarson rafmagnsfræðing frá Chicago; Vilhjálm Stefánsson landkönnuð, frá New York; prófessor Halldór Hermannsson frá Ithaca. — Þessari athöfn, sem fór fram í háskólanum eins og sagt hefir verið, var lokið kl. 4 e. h.; en kynnisboð hafði forsætisráðherra Íslands á heimili sínu, þar sem konungur og drotning Íslands voru til heimilis, frá kl. 4—6, sem margir Vestur-Íslendingar tóku þátt í. — Kl. 6 var veizla haldin á Hotel Borg, er stjórn Íslands bauð til, en rektor háskólans stjórnaði, fyrir alla, sem á fundi háskólans höfðu verið fyr um daginn. Stóð sú veizla með rausn mikilli fram til kl. 9 að kvöldi. En þá héldu margir af veizlugestunum til Þingvalla.

Enginn atburður á árinu liðna hefir heillað hugi manna meir, né heldur haft jafn víðtæk áhrif utan Íslands og innan, eins og Alþingishátíðin. Hvað Íslendinga sjálfa snertir, var það í alla staði eðlilegt, því hér var verið að minnast þess atriðis í lífi þjóðarinnar, sem skýrastan stimpil hefir sett á líf henn-

ar og hefir verið þróttmesta menningaratriðið á vegferð hennar í þúsund ár. Hvað aðrar þjóðir snertir, var þetta ekki eins eðlilegt. Þær vissu lítið eða ekkert um sögu þjóðarinnar, og það sem þær vissu, var í flestum tilfellum rangt, utan tiltölulega fárra menntamanna, er sérstakt far hafa gert sér um að kynnast sögu þjóðarinnar og menningarlegum þroska hennar í fortíð og nútíð. Fjöldinn vissi því ekkert um, að þegar aðrar þjóðir vógust með vopnum og einveldishugsunin velti sér yfir löndin, og yfirgangur harðstjóranna þrengdi æ meir að einstaklingsfrelsi og einstaklingsrétti, að þá stofnuðu Íslendingar af eigin hvöt lýðveldi, er hvíldi á rétti og frelsi einstaklingsins. Hann vissi lítið eða ekkert um andlegt atgervi þjóðarinnar — um áhrif Íslendinga til forna á ljóðagerð og sagnaritun á Norðurlöndum, né heldur hversu mikið afl að frumleiki Íslendinga til forna og andlegt atgervi þeirra hefir verið þjóðinni sjálfri í gegnum þúsund ára stríð við ótal erviðleika og þrautir. Þegar menn heyrðu talað um að þessi afskekta og litla þjóð, Íslendingar, ætluðu að fara að halda hátíð til minningar um þúsund ára gamalt þing, fannst þeim að grundvöllur sá, sem slíkt stjórnarfyrirkomulag hefði hvílt á í þúsund ár án þess að hrynja, myndi hafa verið vel tryggður, svo það væri gaman að kynnast fyrirkomulaginu og þjóðinni.

Þriðja aðstaðan að þessu máli, þeirri fyrstu skyld, var aðstaða Vestur-Íslendinga. Þeir eldri þekktu og nutu minningaauðs þess, er knýtti hugi og hjörtu þjóðarinnar íslenzku við þessa hátíð, og voru að því leyti eitt með þjóðinni, en hátíðin var meira fyrir þá. Hún var tilefni til endurfunda vina og vandamanna eftir hálfrar aldar aðskilnað, og hún var þeim vakning og hvöt, til meiri atorku, sannari drengskapar og einlægari sjálfsprófunar í öllu, er þeir höfðu í arf þegið frá feðrunum, og hátíðin minti hvern hugsandi mann svo átakanlega á.

Þeir yngri voru ekki og eru ekki eins fast knýttir við safn endurminninganna, landið eða þjóðina. Myndina, sem þeir áttu, höfðu þeir fengið frá foreldrum sínum, úr bókum, og svo frá sínu eigin ímyndunarafli. En hugur þeirra var samt bljúgur og sál þeirra viðkvæm, er þeir sáu landið, þar sem foreldrar þeirra voru fæddir — landið, sem geymir duft ættfólks þeirra í skauti sínu; landið, sem bauð þá velkomna, er þeir sigldu upp að því.

Það er ekki í fljótu bragði hægt að gera sér grein fyrir vanda þeim og erfiðleikum, sem íslenzka þjóðin og þeir, sem fyrir hennar hönd voru staddir í, við undirbúning þessarar hátíðar. Þeir þurftu að taka aðstöðu alls þessa fólks, sem um hefir verið getið, til greina og fullnægja vonum þess, seðja forvitni þess og svala eftirvæntingu þess, að svo miklu leyti sem unt var. Það þurfti að sjá því fyrir gistingu, bæði í Reykjavík og á Þingvöllum, þar sem engin tæki voru fyrir hendi og allan kost þurfti að flytja langar leiðir til að fullnægja þörfum meira en þrjátíu þúsund manna, og það þurfti að sjá um veðrið, sem meira reið á með

en nokkuð annað; því "frjálst er í fjallasal" og "fagurt í skógardal", þegar sólin skín í heiði og himininn djúpur og blár hvelfir sér yfir Þingvelli, Ármannsfell og Almannagjá. En aftur á móti kalt, dauft og ömurlegt, þegar skýin grúfa grá og þung yfir höfðum manna, og ýringur er eða steypiregn. En veðurathuganir sýndu, að á undanförnum árum hafði einmitt rignt á Þingvöllum þá daga, sem hátíðina átti að halda, og svo bætti ekki um, að rignt hafði stöðugt í fleiri vikur á undan hátíðinni; og var því sízt að furða, þó þjóðin væri kvíðafull, og fram af munni hennar brytist vonarþrungin ósk um gott og hagstætt veður.

Á miðvikudagskvöldið 25. júní var veðurútlitið allt annað en glæsilegt. Þokuloftið grúfði sig svo að segja ofan að jörð og faldi alt útsýni, en regnúðinn lagðist að öllu, sem úti var, þéttur og þungur. — Seinni hluta þess dags hófst fólksflutningurinn úr Reykjavík og austur á Þingvelli, fyrir alvöru. Stjórnin hafði tekið alla fólks- og kassabíla í sína þjónustu og sett fastákveðið flutningsgjald hvora leið, sem var 10 krónur með fólks- og 5 krónur með kassabílum. Við veginn hafði verið gert, þar sem þess þurfti, og nýr vegur lagður upp Mosfellssveitina, sem kom inn á þann eldri skamt fyrir sunnan Kárastaði, og fóru menn austur eftir gamla veginum, en suður eftir þeim nýja. Flutningurinn á fólkinu gekk aðdáanlega vel; eftirlit og regla í bezta lagi. Ekki er mér kunnugt um, hve margir það voru, sem austur fóru á miðvikudagskvöldið, en mesti fjöldi hefir það hlotið að vera. Hópur sá, sem á vegum Heimarfarnefndar var, fór ekki fyr en á fimtudagsmorgun, sökum þess að við óttuðumst, að ef kalt eða regn yrði, að eldra fólk, sem ekki var vant tjaldvist, þyldi hana ekki, svo að ráðstafanir voru gerðar til að fara austur á morgnana og suður aftur á kvöldin, meðan hátíðin stóð yfir, og gista í hinum ágæta bústað, er okkur var lánaður á meðan við dvöldum á Íslandi — Landsspítalanum nýja. Á Þingvöllum var viðbúnaður mikill. Tjaldborg mikil hafði verið reist inni á Leirunum, sem eru alldrjúgan kipp í norður frá Þingvallabænum, og áttu þar bústað allir gestir, sem næturvist höfðu á Þingvöllum, aðrir en þeir, sem á vegum Hátíðanefndarinnar voru, er heimilisvist höfðu annaðhvort í Valhöll, sem færð hafði verið af völlunum og suður fyrir Öxará út með holtinu, nálega gegnt því, er Öxará fellur í Þingvallavatn. Þangað var og konungshúsið fært, er konungur og drotning bjuggu í á meðan þau dvöldu á Þingvöllum, en krónprinsin sænski bjó í Þingvallabænum, sem landsstjórnin hafði látið byggja upp úr steinsteypu í íslenzkum bæjarstíl. Aðrir gestir stjórnarinnar bjuggu í tjöldum, sem reist voru á túninu á Þingvöllum, en skandinavískum stúdentum, sem fjölmennir voru á hátíðinni, voru reist tjöld norðarlega í Almannagjá. Prýðilega var gengið frá öllum þessum tjaldbúðum, og vatn leitt um þær til neyzlu og hreingerninga.

Fimtudagurinn 26. júní — fyrsti hátíðisdagurinn, — rann upp þung-

búinn og daufur útlits. Þokuveggur lá langt ofan í fjallahlíðar. Jörðin var vot og regnúði var á annað slagið. Svona átti þá að fara! Allar vonirnar, allur undirbúningurinn og allur áhuginn að verða til einskis. Kvíði þjóðarinnar að



HANS HÁTIGN CHRISTIAN X.
konungur Íslands og Danmerkur, sem staddur var á hátíðinni og kvaddi Alþingismenn til þingsetu á þingstaðnum forna við Öxará.

rætast. Minningarnar allar, sem við hátíðina voru bundnar, að kafna í íslenzkri rigningu og íslenzkum leir. En um það var nú ekki til neins að deila við dómarann. Ef að íslenzk gifta og íslenzkir landvættir gátu ekki haldið verndarhendi yfir landinu á þessari hátíðarstund þess, þá var ekki um annað að gera en að taka því með þögn og þolinmæði, sem hverju öðru mótlæti, er íslenzka þjóðin hefir orðið að þola. — Klukkan níu var því gengið til tíða upp í Almannagjá, eins og dagskráin fyrirskipaði. Safnaðist þar saman múgur og margmenni. Konungur og drotning, ríkiserfinginn sænski, sendisveitir erlenda þjóða, prestar Íslands, alþingismenn og landsmenn yfirleitt skipuðu sér í fylkingu undir sérstökum sýslumerkjum í gjánni rétt fyrir norðan Öxarárfossinn. Til suðurs heyrðist niðurinn í fossinum og ánni og vatnsúðann sázt leggja upp yfir gjárbrúnina frá fossinum. Við vesturvegg gjárinnar hafði prédikunarstóll verið reistur hátt í berginu uppi. Að austan lukti hinn eystri veggur gjárinnar, en að norðan teygði sig grá og dimm sumarþokan ofan í rætur fjallanna. Guðsþjónustan hófst stundvíslega kl. 9 f. h., með því að sunginn var hinn alkunni sálmur Hallgríms Péturssonar, "Víst ertu, Jesú, kóngur klár", og var það sérstaklega áhrifamikið að heyra orðin og hljóm öldur lagsins brjótast fram af vörum þúsunda manna, endurhljóma frá bergvegnum háa, kastast til baka og stíga upp og út í geiminn ómælilega. Ekki jók það heldur lítið á tiguleik athafnarinnar, að rétt eftir að guðsþjónustan hófst, rofuðu skýin; þokuloftinu létti — fyrst af láglendinu og svo af fjöllunum, unz að eftir dálitla stund hvelfdi himininn heiður og blár sér yfir Þingvöll og sólin baðaði sléttuna fagurgræna, hraunið og skóginn dökkgrænann, Þingvallavatn spegilfagurt og bláleit fjöllin, í geisl-

um sínum.

Guðsþjónusta þessi fór fram undir stjórn biskups Íslands, dr. Jóns Helgasonar, sem prédikaði við þetta tækifæri. Á eftir prédikuninni var sunginn sálmur séra Matthíasar, "Faðir andanna".

hýr og glaðleg, og í stað kvíða- og vonleysissvipsins, sem á fólkinu var, lék nú ánægju- og gleðibros um varir þess. Minti það mann á, hversu náknýtt að fólk er nátturu þeirra landa, sem það vex upp í, og ekki sízt Íslendingar.



Hr. JÓHANNES JÓHANNESSON
fyrverandi bæjarfógeti og alþingismaður, forseti Undirbúningsnefndar Alþingishátíðarinnar.



Hr. ÁSGEIR ÁSGEIRSSON
fræðslumálastjóri og forseti sameinaðs þings, forseti hátíðarinnar.

Að guðsþjónustu lokinni var gengið til Lögbergs. Var þeirri för þannig hagað, að í broddi fylkingar gengu konungur og drotning, prinsinn sænski, ríkisstjórnin, forsetar Alþingis, umboðsmenn erlendra þjóða, alþingismenn, biskup og prestar og svo sýslufélög eftir stafrofsröð, og voru fyrir þeim borin bæjar- og sýslumerki, en á undan allri fylkingunni fór lúðrasveit Reykjavíkur.

Varla var hægt að hugsa sér gagngerðari breytingu heldur en orðin var þarna á Þingvöllum svo að segja á svipstundu. Náttúran, sem verið hafði drúpandi og þungbúin, brosti alt í einu við manni

Það er tiltölulega stuttur spölur frá stað þeim, sem guðsþjónustan var haldin á, og suður að Lögbergi. Er gengið eftir veginum, sem liggur eftir gjánni, og býst eg við að þeir fyrstu hafi fyrir löngu verið komnir til Lögbergs, er þeir síðustu lögðu af stað. En gjáin er víð að Lögbergi, og eftir tiltölulega stuttan tíma var hún orðin nálega full af fólki, það er að fólksbreiðan náði á milli austur- og vesturveggja gjárinnar.

Að Lögbergi hafði pallur mikill verið reistur. Á honum stóð ræðupallur skreyttur íslenzkum fánum, og yfir honum blakti fáni þjóðarinnar á hárri stöng, en sæti voru á

aðalpallinum fyrir alþingismenn og gesti. Söngpallur hafði og verið reistur í gjánni í norður frá Lögbergi, en var í helzt til mikilli fjarlægð frá ræðupallinum, til þess að söngsins nyti þar eins og þurft hefði, því að kringum Lögberg hafði allur fjöldi fólksins skipað sér.



Hr. TRYGGVI ÞÓRHALLSSON
forsætisráðherra Íslands, er setti Alþingishátíðina.



Hr. JÓNAS JÓNSSON
dómsmálaráðherra Íslands, formaður Sambands íslenzkra samvinnufélaga, og einn aðalmaðurinn í Undirbúningsnefnd Alþingis.

Athöfnin að Lögbergi hófst með því að Þingvallakórið söng "Ó, guð vors lands". Það er ávalt hrífandi að heyra það lag vel sungið, eins og það var í þetta skifti undir stjórn Sigfúsar Einarssonar. Kringumstæðurnar gerðu hjörtu manna móttækilegri fyrir regni tónanna, en vanalega gerist. Þúsund árin runnu saman í hugum manna í einn dag, eitt augnablik — "eitt eilífðar smáblóm með titrandi tár".

Þegar að kórið hafði lokið við að syngja þjóðsönginn, setti forsætisráðherra Íslands, herra Tryggvi Þorhallsson, hátíðina með snjallri ræðu og vel fluttri, og bar hljóðberi hvert orð skýrt og greinilega til allra sem staddir voru í námunda við Lögberg. Að ræðu þeirri lokinni söng Þingvallakórið fyrri hluta hátíðaljóðanna undir stjórn Páls Ísólfssonar. Kl. 11.30 setti konungur þing að Lögbergi. Mælti hann á íslenzka tungu eða eins nærri henni og hann gat komist. Erindi hans var stutt og látlaust. Að því loknu flutti forseti sameinaðs þings og forseti hátíðarinnar, herra Ásgeir Ásgeirsson, hátíðarræðuna, snjallt mál og vel flutt, Hefir sú ræða, eins og allar aðalræður, sem fluttar voru við þetta tækifæri, verið birtar á prenti, og er óþarfi að fjölyrða um hana eða þær hér.

Að ræðunni lokinni söng Þingvallakórið síðari hluta hátíðaljóðanna. Þegar því var lokið, var kominn matmálstími, svo fólk gekk

til miðdegisverðar, sem framreiddur var eins og allar aðrar máltíðir, í Valhöll og veizluskála, er reistur hafði verið við hliðina á Valhöll, gestum Alþingis, en aðrir hátíðagestir mötuðust í tjöldum, er reist höfðu verið á sléttunni austan undir austurbrún Almannagjár, rétt fyrir norðan þar sem Öxará fellur ofan á vellina. Var þar framreitt nóg af góðum og ódýrum mat.

Eftir hádegi fyrsta hátíðisdaginn var tekið á móti ávörpum frá erindrekum erlendra þinga, og gekk dagurinn fram að kvöldverðartíma til þess. Ávörp þessi voru öll mjög vingjarnleg í garð Íslendinga og prýðilega vel flutt. Ekki er eg alveg viss um, hve margar þjóðir sendu fulltrúa á hátíðina. En um þessar veit eg:

Frá Þýzkalandi:

Karl Hildenbrand, sendiherra.
Emil Berndt, borgarstjóri.
Hermann Hoffmann, yfirkennari.

Frá Bandaríkjunum:

Senator Peter Norbeck.
Congressmaður O. B. Burtness.
Sveinbjörn Johnson háskólakennari
Friðrik J. Fljózdal, forseti hinna sameinuðu bandalaga járnbrautarþjóna í Ameríku.
O. P. B. Jakobsen söngstjóri.

Frá Canada:

Capt. Sigtryggur Jónasson.
Dr. B. J. Brandson.
Herra Árni Eggertsson

Frá Danmörku:

H. P. Hansen, forseti þjóðþings.
J. Jensen Klejs, forseti Landsþingsins.

Frá Frakklandi:

M. Fernand Lancien, forseti efrideildar.
M. Leon Vincent, þingmaður og borgarstjóri í Calais.

Frá Finnlandi:

Hr. Vamö Hakkila, forseti þjóðþingsins.
Ungfrú Sillandaa.

Frá Bretlandi:

Rt. Hon. Lord Newton, P.C.
Rt. Hon. Lord Marks
Rt. Hon. Lord Lamington.
Sir R. Hamilton, M.P.
Mr. Rhys J. Davies, M.P.

Frá Ítalíu:

M. Fausto Bianchi, málafærslum.
M. Bach, þingm. og skólakennari.
Hurfu þeir heim aftur og sátu ekki hátíðina.

Frá Noregi:

Hr. Chr. Hornsrud, forseti Stórþingsins.
Hr. Helge Thume, forseti neðri deildar (Lögþingsins).

Frá Hollandi:

Senator Dr. H. J. Knottenbelt.
Herr J. Koster, verkfræðingur og þingmaður.

Frá Svíþjóðu:

Hr. Bernh. Erickson, þingforseti.
Hr. C. W. P. Nilsson, þingforseti.

Frá Tékkó-Slóvakíu:

M. Jean Malypetr, forseti neðri deildar.
M. Francois Soukoup, forseti efri þingdeildar.
M. Dr. Wladimir Zádera.

Frá Færeyjum:

Hr. Edw. Mitens, lögþingismaður.
Hr. Jóannes Patursson kóngsbóndi í Kirkjubæ.

Frá Mön:

Mr. Farrand dómari (Deemster).
Mr. E. F. Chicas, forseti Manarþings.
Mr. P. M. C. Kermode, safnvörður.

Frá Manitoba:

Hra. Ingimar Ingaldson, M. P. P.
Hon. W. J. Major, dómsmálaráðherra Manitoba, M. P. P.

Frá Saskatchewan:

Hra. W. H. Paulson, M. P. P.

Frá Minnesota:

Hon. Gunnar B. Björnsson, skattstjóri ríkisins.

Frá Norður Dakota:

Hon. Guðm. Grímsson dómari.
Dr. G. J. Gíslason, fulltrúi ríkisstjórans.

Þeir Íslendingar, sem ávörp fluttu þann dag, voru: Dr. B. J. Brandson fyrir hönd Canada; W. H. Paulson fyrir hönd Saskatchewan fylkis; Guðmundur Grímsson dómari, fyrir hönd Norður Dakota; Gunnar B. Björnsson, fyrir hönd Minnesota, og Ingimar Ingaldson fyrir hönd Manitoba.

Um kvöldið var hin fyrsta opinbera veizla haldin í sambandi við hátíðina. Var til hennar boðið af Alþingi. Ekki er mér ljóst, hversu margir sátu það boð, en það var mesti fjöldi. Veitingar voru hinar ríkmannlegustu og boðið í alla staði hið virðulegasta.

Eftir kvöldverð áttu glímur að fara fram; en úr því varð þó ekki, því veður spiltist um kvöldið; tók að rigna í bygð en snjóa á fjöllum.

Föstudagurinn — annar hátíðisdagurinn — rann upp þurr og bjartur. Fólkið fór að safnast saman upp í Almannagjá um kl. hálf-tíu; en um kl. tíu flutti forseti neðri deildar, Benedikt Sveinsson, Minni Íslands að Lögbergi. Á eftir lék lúðrasveit Reykjavíkur "Ó, guð vors lands". Var þá haldið norður að Ármannsfelli, eða norður í Bolabás, sem er rennisléttur sandflötur undir fellinu, og er einkar vel fallinn til þeirra skemtana, sem þar áttu fram að fara, en það voru veðreiðar og hesta-at. Veðreiðarnar tókust vel. Íslenzku hestarnir tóku hraustlega til fóta og sýndu, að í þeim er meira en þrautseigjan. Þeir eru líka ferðmiklir fyrir sína stærð, og ekkert skapminni heldur en hinir stærri bræður þeirra. Veðreiðarnar voru hin bezta skemtun. En upp úr hesta-atinu voru íslenzku hestarnir vaxnir, vildu hvorki bítast né slá.

Kl. 12 var þingfundur að Lögbergi, en klukkan 1 gengu menn til miðdegisverðar.

Eftir miðjan dag á föstudaginn var Vestur-Íslendingum fagnað sérstaklega að Lögbergi. Forseti efri deildar Alþingis bauð þá velkomna með vingjarnlegri ræðu, en séra Jónas A. Sigurðsson svaraði fyrir þeirra hönd með snjallri ræðu.

Síðar þann dag fór fram fornsýning. Sá þáttur úr Alþingssögu Íslendinga sýndur, er Hrafn Hængsson var kosinn lögsögumaður. Sýning sú fór fram hið bezta, og vakti athygli aðkomandi fólks framar flestu öðru er fram fór á hátíðinni.

Hálfhringur hafði verið gerður austan í hallanum rétt fyrir sunnan og neðan Lögberg. Á sveig-

mynduðum bekk í þeim hálfhring sátu Lögréttumennirnir, og hófst sú athöfn með því að Úlfljótur segir af sér lögsögu og óskar eftir að Lögrétta kjósi mann í sinn stað. Segir hann nokkuð frá starfi sínu og skýrir anda laganna all-rækilega. Tók þá til máls Þorsteinn allsherjargoði Ingólfsson. Rifjaði hann upp tildrög til Íslandsbygðar og Alþingismyndunar. Benti hann mönnum á ábyrgð þá er þeir hefðu undir gengist með ríkismynduninni, þar sem sú nýbreytni sé viðtekin að lögin komi í stað konungs. Skoraði hann á fjóra höfðingja, hvern úr sínum landsfjórðungi, Ólaf Feilan af Vesturlandi, Þorstein hvíta af Austurlandi, Þorstein Ingimundarson af Norðurlandi og Teit Ketilbjarnarson af Suðurlandi, að nefna þá menn til lögsögu, sem þeir vissu hæfasta hver í sínum landsfjórðungi. Fjöldi manna var tilnefndur. En Þorsteinn Ingólfsson stingur upp á, að Lögrétta unni Skallagrími Kveldúlfssyni þeirrar virðingar, að tilnefna lögsögumann, og nefnir hann þá frænda sinn Hrafn Hængsson. Þar eð engar mótbárur voru gegn vali Skallagríms, þá lýsti Þorsteinn Ingólfsson kjöri Hrafns Hængssonar í heyranda hljóði í Lögréttu. Eftir að Hrafn Hængsson hafði haldið alvöruþrungna ræðu, vann hann eið sinn að baugi — stallahringnum úr hofinu í Reykjavík, er allsherjargoðinn bar á hendi.

Leiksýning þessi fór afbragðsvel fram. Lögréttumennirnir hver um sig sýndu glöggvan skilning á verkefnum sínum. Þeir voru allir búnir í skrautlega fornmannabúninga, og voru hinir hetjulegustu á að sjá; enda varð mannfjöldanum, sem náði alla leið frá eystri brún Almannagjár, austur að Öxará, yfir hólmann í ánni og yfir nokkurn hluta af Þingvallatúninu og svo alllangt til norðurs og suðurs frá sýningarstaðnum, starsýnt á þetta áhrifamikla atriði úr fornsögu þjóðarinnar íslenzku. Stjórn og umsjón á leiksýningunni hafði á hendi Haraldur Björnsson leikari, en þeir prófessorarnir Sigurður Nordal og Ólafur Lárusson sömdu texta leiksýningarinnar.

Þegar sýningu þessari var lokið, var kvöldverðartími kominn. Hafði ríkisstjórn Íslands boð mikið það kvöld, og fór það fram, eins og fyrra kvöldið, með prýði og rausn.

Á föstudaginn eftir kvöldverð fóru fram íþróttasýningar og leikir á palli miklum, sem reistur hafði verið á völlunum skamt fyrir norðan, þar sem Öxará rennur eftir völlunum. Gat þar að líta frítt lið og fagra leiki. Fólkið sat í sjónbrekku og horfði á, eins og fyrrum tíðkaðist á söguöldinni.

Veðrið hafði verið gott báða þessa hátíðisdaga, nema á fimtudagskvöldið. Þá rigndi og snjóaði. Var það aðeins til tilbreytingar og til þess að sýna gestum, hve margbreytileg íslenzk veðrátta getur verið, jafnvel um hásumarið. Þeir voru búnir að sjá þokuloft, rigningu og snjó. Nú áttu þeir eftir að sjá enn breytingu. Laugardagurinn rann upp bjartur og blíður. Sólin helti geislum sínum yfir landið — yfir menn og málleysingja. Ármannsfell, Skjaldbreið, Hrafnabjörg Hlöðufell og Tröllatindur teygðu sig

upp í silfurtæran himinblámann; en Þingvallavatn lá kyrt og rólegt til suðurs, eins og glampandi silfurflötur. Það var eins og íslenzk náttúra vildi sýna gestunum, hve yndislegt veðrið getur verið og hinn fornhelgi þingstaður töfrandi fagur.

Dagurinn hófst með því, að sérstök ávörp voru flutt að Lögbergi kl. 9.30. Var þá haldinn þingfundur og að honum loknum fóru fram þinglausnir. En áður en þingi var slitið, var samþyktur og undirritaður sáttmáli milli Íslands og þjóða Norðurlanda, er skuldbinda hlutaðeigendur, til að leggja öll ágreinings mál, sem héðan í frá kunna að koma upp þeirra í milli, í gerðardóm, og hlíta þeim úrskurði, sem upp verður kveðinn, svo að þær beri aldrei vopn hver á aðra. Er þar fagurt fordæmi gefið öðrum þjóðum, sem tala um frið, en í sömu andránni hervæðast þó.

Seinni hluta laugardagsins fóru fram íþróttasýningar og leikir, sem var unun á að horfa, því fólkið var vel æft, tigulegt og leysti verkefni sín prýðis vel af hendi.

Klukkan átta um kvöldið sagði forsætisráðherra Íslands, Tryggvi Þórhallsson, hátíðinni slitið.

Þessi síðasti hátíðisdagur á Þingvöllum verður víst minnisstæður öllum, sem þar voru. Hátíðin var á enda og menn rendu huganum yfir það, sem þar hafði farið fram, og reyndar yfir þúsund ára tímabilið liðna; og viðburðirnir liðu í gegnum huga, hver á fætur öðrum, og í öllu því minningasafni festist hugurinn við eina staðreynd, sem saga þjóðarinnar öll hefir sannað, og Alþingishátíðin 1930 líka, en hún er sú, að eining og samhugur hefir verið og er aflið, sem hefir veitt þjóðinni mátt til að sigra erfiðleikana, þola þrautirnar, og er þá líka óbrigðull leiðarvísir í framtíðinni um það, hvar styrkur hennar liggur.

Samtökin og einingin voru öflin, sem gerðu íslenzku þjóðinni mögulegt að halda hátíð, slíka sem þá, er haldin var á Þingvöllum 1930. Það var að sjálfsögðu vandað til hinna ytri ráðstafana, en þær hefðu orðið með öllu ónógar, ef fólkið sjálft — einstaklingarnir sjálfir — hefði ekki skilið, að um sóma þeirra var að ræða, og að þjóðin þeirra litla stóð frammi fyrir dómstóli erlendra stórþjóða, sem við þetta tækifæri voru að leggja mælikvarða á þroska og menningargildi hennar. En samtökin réðu dómsúrslitunum, sem, eftir því er eg bezt veit, voru þau, að hvergi í heimi hefði verið hægt að halda hátíð með slíkum tignarbrag, annarsstaðar en á Íslandi.

Framkoma þjóðarinnar á hátíðinni var svo háttprúð og alvöruþrungin, að hún vakti sérstaka eftirtekt útlendra gesta. Þar var enginn hávaði, ekkert tildur, ekkert verzlunarbrask, engin illindi, engin áflog og ölvaður maður sást ekki, en alvöruþrungin ró hvíldi yfir öllum og öllu. Sá einbeitti ásetningur manna auðsær, að hátíðin skyldi verða í sem nánustu samræmi við eðli þjóðarinnar, sögu hennar og íslenzka náttúru — og sá ásetningur tókst. En Íslendingar voru ekki alveg einir að verki. Náttúra landsins gerði sitt til, með að gera hátíðina veglega og eftirminnilega,

einkum síðasta daginn. Himininn var heiður og blár. Fjallahringurinn, sem umkringdi hátíðarstaðinn, mikilfenglegur, með öllum sínum tilbreytingum. Ilmþrungið og hlýtt sveitaloftið lék um gestina. Regndropar úr heiðskíru lofti féllu eins og kristallsdropar ofan á jörðina; en regnboginn, í öllu sínu litskrúði, spenti sig yfir skógi vaxið hraunið á milli Þingvallavatns og Ármannsfells.

Sunnudaginn 29. júní afhentu hinir erlendu erindrekar gjafir þær er þeim höfðu verið fengnar til að færa Alþingi og Íslendingum. Voru þær bæði margar og merkilegar. Athöfn þessi fór fram í Alþingishúsinu upp úr hádegi.

**Íslendingar í Danmörku** gáfu forseta bjöllu úr silfri. Á handfang bjöllunnar var grafið: "Með lögum skal land vort byggja. Þing skal til þrifnaðar landi". Gjöfina afhenti herra Sveinn Björnsson sendiherra Íslands til Danmerkur við upphaf hátíðarhaldsins á Þingvöllum.

**Þjóðverjar** gáfu rannsóknarstofutæki (Laboratory), af nýjustu gerð, er notuð eru til þess að rannsaka alidýrasjúkdóma og fleira, sem að landbúnaði lýtur.

**Danska Ríkisþingið** gaf stórt og vandað skrautker,úr hinu nafntogaða og óviðjafnanlega Khafnar postulíni. Þá gaf konungur Íslands og Danmerkur 15,000 kr. í útgáfusjóð til að kosta prentun á Íslendingasögum, en danski Ríkisdagurinn gaf hverjum Alþingismanni og helztu söfnum landsins Flateyjarbók, ljósmyndaða útgáfu eftir frumhandritinu, og Sáttmálasjóðurinn eintak af Íslendingasögu Ara fróða, litprentaða útgáfu eftir elzta handritinu.

**Norðmenn** gáfu sjóð, er þeir kenna við Snorra Sturluson og kalla Snorrasjóð, á annað hundrað þúsund krónur. Á arður sjóðsins árlega að veitast sem námsstyrkur til íslenzkra nemenda, er stunda vilja framhaldsnám í Noregi í einhverri fræðigrein. — Íslandshúsnefndin í Oslo sendi skrautritað ávarp á dýrindis bókfelli, er vafið var upp á silfurbúið kefli.

Þá sendi norska þingið og stjórnin skrautprentað ávarp á íslenzku. Er það prentað á afar vönduð spjöld úr saffíanskinni. Eru þau gullbúin og sett 8 rúbínsteinum. Ennfremur gaf norska þingið forseta hamar úr íbenviði, gullbúinn, hinn eigulegasta grip. Norska bóksalafélagið sendi gullbúin spjöld, með mynd af Íslandi, en undir myndinni er prentað upphaf kvæðisins "Ísland" eftir A. Munch, "Lýsir af eyju við ísþokuslóð".

**Bandaríkin** gáfu eirlíkneski, af Leifi hepna Eiríkssyni, er kostar, um það því verður komið fyrir, um $50,000.00. Myndin var ekki fullgerð, svo gjafabréfið var aðeins afhent ásamt ávarpi frá Congressinu. Þá sendi félag danskra kvenna í New York bronz-brjóstmynd af Vilhjálmi Stefánssyni, er smíðað hafði íslenzka listakonan ungfrú Nína Sæmundsson. Ennfremur sendi Fugla- og trjáræktarfélagið í New York 1000 trjáplöntur til gróðursetningar og $1000 í peningum.

**Svíþjóð** sendi margar gjafir og góðar: Bókasafn nær 1000 bindi. Í því safni er þau rit að finna, er samin hafa verið um Ísland eða

lega þroskað ættjarðarást margra Vestur-Íslendinga. Hömlur kærleikans kynda bezt eld ástarinnar. Sögurnar og ættjarðarkvæðin bera hér vitni: "Út vil ek", og "Flyt mik til frænda minna", eru þar viðkvæðin. Örvar-Oddur vann sigur hvar sem hann fór, ríkti einvaldur suður í heimi við of fjár og ýmsa hagsæld En kvöld eitt mælir hann til drotningar sinnar: "Ek ætla norður til Hrafnistu, ok vil ek vita, hver eyna hefir at varðveita, því at ek á at hafa hana ok mínir ættmenn — ok mun ekki stoða at letja mik, því ek er ráðinn í at fara." Hinn norræni kappi fer heimleiðis og ber þar beinin.

En þetta er þá einnig sagan af sálarlífi Vestur-Íslendingsins, sem ekki virðir föðurleifð sína að vettugi.

Fráskilinn og fjarlægur föðurlandi og frændum, átthögum og æskustöðvum, eygir hann **heima**, vonartinda lífsins, ofar þoku, þröngsýni og dægurþrasi. Hver hóll og klettur bygður ósýnilegum hollvættum. Hver lækur að lífsins lind. Kuldastakkur lífsins og landsins verður að sumarhjúp. Þjóðin, afklædd göllum sínum, er sparibúin í þingreið eða kirkjuferð. Málið, laust við þrátt hversdagslífsins, verður að mjúkum móðurorðum. Slíkum hugsunum gaf heimförin nýtt gildi.

"Við sátum hjá Angantýs eldi
Við Eddu og tungunnar mátt."

Hið bezta í arfi og eðli Íslendingsins hélt oss öðru fremur andlega vakandi í mannös og mammonshyggju, mannlífs þjarki og meinlætum frumbýlingsáranna erlendis. Vér sofnuðum frá íslenzkum sögum og sálmum, með ljóð og rímur undir koddanum, oss dreymdi um barnseðlið, æskuna og Ísland, og vöknuðum til að gerast farþegi miðnætursólarinnar um heiðskírt háloftið, ofar öllu láglendi lífsins, í vonarland íslenzkra barna, — heim, til ættjarðarinnar fögru og frægu og hinna frábæru frænda vorra.

Verður nokkurt mannsbarn veikara eða vansælla fyrir að dreyma daglega slíkar myndir?

En Vestur-Íslendingurinn lætur sér engan veginn nægja frægð eða sigur líðandi stundar. Hann elskar sína vonardrauma, hvort sem þeir vitja hans í Betel eða á Þingvöllum, í Winnipeg eða í Reykjavík. Hann ýtir út takmörkum sjóndeildarhringsins. Hann kýs að mæta sólroði dagsins. Hann vill lifa sonur morgunsins í þeirri von, að komast hjá valdi næturinnar. En inn í hvern geisla í sálarlífi hans, er Ísland ofið. —

Vér frá útlandinu, er höfum fengið að lifa þessa ógleymanlegu sigurhátíð í skauti Íslands, á helgasta stað hins helga lands, augliti til auglitis við sögu þúsund ára, á samfundi ættbræðra, er efalítið verður vor síðasti, vér hugsum ósjálfrátt til samfunda feðga, er unnust heitt, en atvikin skildu. Kunnasta fornaldarsagan segir frá samfundum þeirra þannig: "Jósef — fór á móti Ísrael föður sínum — og er fundum þeirra bar saman, féll hann um háls honum og grét lengi . . . Og Ísrael sagði við Jósef: Nú vil eg glaður deyja, fyrst eg hefi séð auglit þitt, og þú ert enn á lífi."

— Þeir, sem vilja, geta talið það vott um vanstyrk, að þannig er farið hugarástandi vor aðkomumanna, er hingað sóttum hátíð yðar. — Sú þrá hefir, einnig ósjálfrátt, ofist inní eðli vort, að Ísland yrði oss fordyri eilífðarinnar,—vér gengjum nú og hér fagnandi til fundar við dauðann, er vér höfum séð, berum augum, vorlíf lands og þjóðar, er vér unnum af alhug.

"Móðurjörð hvar maður fæðist,
Mun hún ekki flestum kær?"

Þér kannist við enska skáldið Thomas Hardy. Hann er nýlega andaður. Hann unni átthögum sínum með dæmafáum kærleika. — Hrjóstur og heiðar urðu honum persónugervingar lifandi náunga. Þaðan stafar einkum frægð hans meðal Breta.

Er hann dó, heimtaði þjóðin hans að líkaminn yrði greftraður í Westminster Abbey — dánarreit hinna andlega tignu meðal Breta. — En hjarta Hardy's var, samkvæmt ráðstöfun hans, jarðsett í heimahögum — þar sem hjartað átti heima.

Íslenzka þjóð! Svipað er ástatt fyrir ýmsum börnum þínum, er erlendis dvelja. Hver sem endalykt æfinnar verður, er hvíldarstað hjartans ráðstafað. —

En þú, sem hófst Ísland úr undirdjúpi úthafsins, og settir það útvörð norrænnar menningar, vernda það, faðir, blessa börn þess, mál þeirra og menning alla, unz þú gefur mönnum nýjan himin og nýja jörð.



# Endurminningar um Eggert Jóhannsson

Eftir J. Magnús Bjarnason.

Með **Eggerti Jóhannssyni** er til moldar hniginn einn hinn mætasti og vinsælasti maður, sem uppi hefir verið með Vestur- Íslendingum, og einn þeirra manna, sem mest og bezt tóku þátt í því, að viðhalda íslenzkri tungu hér vestan hafs og sporna við því, að íslenzkt þjóðerni hér í landi hyrfi á svipstundu eins og dropi í sjóinn. — Eg ætla ekki að fara að skrifa æfisögu hans, né segja frá starfi hans í þágu vestur-íslenzkrar blaðamensku, sem hann var svo lengi viðriðinn. En mig langar til að fara nokkrum orðum um þá viðkynningu, sem eg hafði af honum, og lýsa honum eins og hann kom mér fyrir sjónir og reyndist mér.

Eggert var fæddur að Vindheimum í Skagafirði 1. nóvember 1860. Faðir hans var **Jóhann** (d. 1919) **Jóhannsson** bónda á Vindheimum, Jóhannessonar hreppstjóra á Víðivöllum í Skagafirði, Eggertssonar lögréttumanns á Ökrum, er var af hinni alkunnu Svalbarðsætt og kominn í beinan karllegg frá Magnúsi hinum prúða, sýslumanni á Bæ á Rauðasandi, Jónssonar á Svalbarði, Magnússonar. En móðir Eggerts Jóhannssonar var **Árnfríður** (d. 1876) **Jóhannesdóttir,** og voru þau hjónin Jóhann og Arnfríður náskyld. Jóhann var tvíkvæntur og hét seinni kona hans Guðbjörg Eyjólfsdóttir. Er dóttir þeirra **Guðrún Jónína** í Seattle, Wash., kona Árna Sumarliðasonar gullsmiðs, Sumarliðasonar. En þau af systkinum Eggerts, er eg veit um, eru þessi: **Árni,** bóndi við Hallson, N. Dakota, kvæntur Önnu dóttur Björns Jónssonar frá Sleitustöðum í Skagafirði og Sigríðar Þorláksdóttur; **Árnfríður,** ekkja Jóhanns Árnasonar frá Krithóli; og **Hólmfríður Rósa** (d. í Seattle, Wash., 1928), er átti Pál Ólafsson frá Litladalskoti í Skagafirði. Öll voru þau systkinin vel gefin og mannvænleg og mikils metin af öllum, er kynni höfðu af þeim.

Eggert Jóhannsson fluttist með foreldrum sínum vestur um haf sumarið 1876, og kom til Winnipeg 8. ágúst, og var hann þá á sextánda árinu. Faðir hans settist að við Íslendingafljót þá um haustið, og bjó þar þangað til 1881, að hann fluttist til Dakota og nam land nálægt Hallson í Pembina County. Eggert dvaldi í Nýja-Íslandi bóluveturinn (1876-7). Þá um veturinn dó móðir hans. Eftir þann vetur fór hann í vinnu til hérlendra manna, og vann algenga vinnu þangað til í júlímánuði 1883, að hann tók til starfa við vikublaðið "Leif"; og var hann eftir það ritstjóri við íslenzkt blað, þangað til í júnímánuði 1897, að hann hætti með öllu blaðamensku. Um tvö ár kendi hann við alþýðuskóla í Nýja-Íslandi. En í aprílmánuði 1900 komst hann að skrifstofustörfum í landskjalastofu (**Land Titles**

Office) Manitoba-fylkis, og var við það starf þangað til í ágústmánuði 1912. Fluttist hann þá með fjölskyldu sinni til British Columbia og byrjaði í september, það ár, að vinna í landskjalastofu þess fylkis; og við það starf var hann til októberloka árið 1917.

Eggert kvæntist 1. október 1890, og gekk að eiga **Elínu** dóttur Hjörleifs Björnssonar og Ragnhildar Árnadóttur frá Dyrhólum í Mýrdal í Skaptafells-sýslu; og er hún og Skúli læknir Árnason í Skálholti systrabörn. Þau Eggert og Elín eignuðust sex börn, sem öll eru á lífi, þegar þetta er ritað, og eru þessi; **Lawrence A. Johannson,** lögmaður í Vancouver, B. C.; **Joseph S. Johannson** í Moose Jaw, Sask.; **Alexander J. Johannson** í Winnipeg; **Ellen** í Los Angeles, California; og **Ena** og **Lillian** í Vancouver.

Eggert naut alls engrar skólamentunar, en kom sér upp af eigin ramleik, og var þó einn með allra ritfærustu Íslendingum, og ritaði ensku frábærlega vel. Hann bar og gott skyn á stjórnmál þessa lands, og fylgdist jafnan vel með öllum áríðandi málum, sem á dagskrá voru. Hann hafði skýra dómgreind, og glögt auga fyrir öllu fögru, og unni skáldskap af alhuga, og var enda sjálfur skáld, þó hann léti lítið á því bera. Hann var einn með þeim fyrstu meðal Vestur-Íslendinga, til að sjá og meta bókmentalegt gildi hinna ágætu kvæða Stephåns G. Stephanssonar, og átti góðan þátt í því, að koma þeim á framfæri. En það, sem var mest um vert, var það: að Eggert var frábær mannkostamaður, réttsýnn, framúrskarandi vandvirkur og allra manna vinfastastur Um það ber öllum saman, sem hann þektu. Og dr. Rögnvaldur Pétursson segir um Eggert í hinni ágætu ritgerð, "Þjóðrækinssamtök meðal Íslendinga í Vesturheimi", að hann hafi verið "maður vel gefin, lipur og gætinn og miklum bókmenta hæfileikum búinn." — seinni árum tók hann lítinn þátt í félagsmálum Íslendinga, enda var hann að mestu kominn út úr félagsskap þeirra, eftir að hann fluttist til Vancouver, B. C., því að þar var jafnan fremur fátt um Íslendinga. Samt veitti hann því ávalt eftirtekt, sem efst var á dagskrá með þjóð vorri, bæði hér og heima á Íslandi. Íslenzkri tungu og íslenzkum bókmentum unni hann, og Íslendingur vildi hann ávalt vera.

Eg sá Eggert í fyrsta sinn vorið 1882 Eg var þá nýkominn austan frá Nýja Skotlandi, og átti heima hjá foreldrum mínum á Point Douglas í Winnipeg. Eg var þá 16 ára gamall, en Eggert á öðru ári um tvítugt. Hann vann þá við húsabyggingar, og bar þar múrsteina og kalk, og þótti það fremur erfitt verk, því að vinnutíminn var þá tíu klukkustundir á dag. En á þeim árum var sjaldan um aðra atvinnu að ræða fyrir Íslendinga í Winnipeg, en algenga erfiðisvinnu. Og þóttist hver heppinn, sem gat haft hana stöðuga. — Eg man eftir því, er eg sá Eggert í fyrsta sinn, rétt eins og það hefði verið í gær. Það var á sólbjörtum sunnudegi í júnímánuði, á Point Douglas. Hann var þá til húsa hjá íslenzkum hjónum, sem bjuggu í næsta húsi við foreldra mína. Eg man að Eggert var að

lesa dagblað, og veitti eg honum strax mjög mikla eftirtekt. Hann las blaðið af kappi, og þóttist eg vita, að eitthvað væri kátlegt í þessu blaði, því að hann brosti við og við, og hló dátt um leið og hann lagði blaðið frá sér. Mér leizt undireins vel á þenna unga mann. Hann var tæplega meðal maður á hæð, en fallegur í vexti og svaraði sér vel að gildleika, var léttur á fæti og allar hreyfingar hans fjörlegar. Hann var dökkhæður og hárið þétt og fallegt og vel haft. Ennið var mikið, bæði kúpt og hátt, og augabrýrnar hvelfdar. En það, sem mest einkendi hann, voru augun. Þau voru dökk og stór og ósegjanlega djúp og fögur og gáfuleg; og á milli augnanna var nokkuð breitt. Röddin var karlmannleg, en jafnframt viðfeldin og hreimfögur. Eg fann það undireins að þessi gáfulegi, góðlegi ungi maður hafði eitthvað það við sig, sem dró mig ósjálfrátt að honum og kom mér til að dást að honum og bera virðingu fyrir honum. En samt kom mér þá ekki til hugar að það ætti fyrir okkur að liggja að verða svilar, og að hann yrði einn af mínum allra hjartfólgnustu vinum.

Þegar eg kyntist Eggert fyrst, var hann búinn að vera hér í landi í næstum sex ár, og hafði verið mestallan þann tíma í vinnu hjá enskumælandi mönnum á ýmsum stöðum. Og um tíma vann hann hjá tveimur innlendum leirkerasmiðum, sem áttu heima í Selkirk í Manitoba. Voru þeir prýðisvel mentaðir menn og góðviljaðir. — Varð þeim brátt mjög hlýtt til Eggerts og veittu þeir honum góða tilsögn í enskri málfræði og öðrum námsgreinum, og það alveg endurgjaldslaust. Þeir reyndust honum ávalt eins og beztu bræður, og til þeirra leitaði hann oft ráða, jafnvel löngu eftir að hann hætti að vinna hjá þeim. Hann mintist þeirra jafnan með hlýjum huga og innilegu þakklæti.

Eggert fékk því snemma góðan undirstöðu grundvöll í enskri tungu og enskum bókmentum, þó hann sæti aldrei á skólabekk, og var að stórum mun betur að sér í þeim greinum, en flestir aðrir íslenzkir jafnaldrar hans um það leyti. En á þeim árum áttu íslenzk ungmenni í Ameríku lítinn kost á því, að stunda skólanám, því að til þess voru efni lítil og ástæður allar næsta erfiðar; og hugsun flestra þeirra á þeim árum, snerist að sjálfsögðu aðallega um það, að fá einhverja atvinnu, svo þau gætu dregið fram lífið. — Og Eggert hafði líka snemma fengið góða undirstöðu í íslenzkum fræðum, þó hann væri aðeins 16 ára, þegar hann fluttist til þessa lands. En þá undirstöðu fékk hann í heimahúsum. Faðir hans var mætur maður og prýðis vel skýr, og móðir hans stórgáfuð kona og sérstaklega bókhneigð. Og var þeim það áhugamál að börn þeirra yrðu sem bezt upplýst, og hafa því veitt þeim þá fræðslu í heimahúsum, sem kostur var á. Enda ritaði Eggert snemma góða íslenzku, var vel heima í íslenzkum bókmentum og skrifaði ágæta rithönd.

Veturinn 1882—3 var Eggert til húsa hjá foreldrum mínum. Og þá fékk eg gott tækifæri til að kynn-

ast honum. Þann vetur hafði hann mjög stopula vinnu, og las hann þá kappsamlega margar góðar bækur, eins og t. d.: leikrit Shakesspeare's, sögur Charles Dickens, ljóðmæli Byrons, Thomas Moore's, Robert Burns og Longfellows, og fleira. Þá um veturinn voru sýndir á leikhúsinu í Winnipeg nokkrir ágætir sjónleikir, þar á meðal tveir eða þrír gleðileikir eftir Shakespeare, og fór Eggert oft í leikhúsið um það leyti, og hafði mikla unun af. Og þann vetur skrifaði hann íslenzkan sjónleik, all-langan, sem þó var ekki leikinn og kom aldrei á prent. Annað leikrit samdi hann stuttu síðar, í félagi með Sigurbirni Stefánssyni, og mun það hafa verið sýnt í samkomuhúsi hins íslenzka Framfarafélags í Winnipeg. Sigurbjörn var bráðgáfaður maður og skáld og drengur góður, og voru þeir innilegir vinir, hann og Eggert.

Þenna vetur (1882—3) þýddi Eggert á íslenzku sérlega fallega smásögu enska, og var sú þýðing í alla staði ágæt. Sýndi hann nokkrum vinum sínum þýðinguna, og þar á meðal Stefáni Pálssyni, sem þá var aðstoðarmaður Helga Jónssonar ritstjóra og útgefanda vikublaðsins Leifs, er byrjaði að koma út í maímánuði 1883. Varð þetta til þess, að Helgi réð Eggert í þjónustu sína, og mátti heita að Eggert væri að mestu ritstjóri blaðins eftir það, unz það hætti að koma út í júnímánuði 1886. En í september um haustið byrjaði Heimskringla að koma út, og var Frímann B. Anderson eigandi og ábyrgðarmaður þess blaðs, en meðritstjórar þeir Eggert Jóhannsson og Einar Hjörleifsson. Þegar fram liðu stundir, varð Eggert aðalritstjóri blaðsins, og var það um langt skeið, og hann var líka ritstjóri "Aldarinnar" eitt eða tvö ár, en hætti við blaðamensku vorið 1897.

Séra Friðrik J. Bergmann segir um Eggert Jóhannsson í sögunni um íslenzku nýlenduna í Winnipeg (Sem út kom í Almanaki Ólafs S. Thorgeirssonar árið 1906): "Eftir því, sem hann (þ. e. Eggert) var ritstjóri lengur, sýndi hann meiri og meiri áhuga á að ræða velferðarmál Vestur-Íslendigna, eigi síður en vaxandi dómgreind og andlegan þroska". — Þetta er í alla staði satt og rétt. Eggert var ætíð hreinn og óskiftur í öllum málum, sem hann beitti sér fyrir. Og hann var einn þeirra, sem mest og bezt hafa unnið fyrir viðhaldi íslenzks þjóðernis, íslenzkrar tungu og íslenzkra bókmenta í Vesturheimi. Í þarfir þess eingöngu eyddi hann beztu kröftum sínum á bezta skeiði æfinnar. Og það er óhætt að segja, að enginn íslenzkur ritstjóri, fyr né síðar, hefir átt við meiri örðugleka að stríða í blaðamenskunni en hann, og enginn verið vinsælli. — Á meðan hann var við ritstjórastörf riðinn, var hlutskifti hans eingöngu hvíldarlaust strit og lúi. Hann hafði aldrei langað til að verða blaðamaður, en það var alveg eins og atvikin hefðu ýtt honum út á þá braut, þvert á móti vilja hans.

Á meðan hann var ritstjóri Heimskringlu, þýddi hann úr ensku margar langar skáldsögur, er flestar birtust í blaðinu; þar á meðal: "Kotungurinn eða Fall Bastilar", eftir A. Dumas; "Valdimar munkur"

eftir S. Cobb, jr.; "On to Richmond" eftir A. F. Grant; "Eldraunin" eftir Chas. Read; "Vladimir Níhilisti", eftir A. Rochefort;"Kapitola", eftir E. D. E. N. Southworth, og "Jipi", eftir Carmen Sylva. Og þóttu allar þessar sögur vel valdar og skemtilegar, einkum "Kapitola", sem varð sérlega vinsæl. Og fleiri sögur þýddi hann á íslenzku. Hann frumsamdi og nokkrar smásögur á íslenzku á síðari árum, og birtust fyrir víst tvær af þeim í Tímariti Þjóðræknisfélagsins undir stöfunum: "E. J. V." Á ensku ritaði hann einnig greinar við og við, sem birtust í ýmsum hérlendum blöðum undir dulnefninu "Windheim". Og hann þýddi á ensku fáein stutt íslenzk kvæði, og eitt þeirra var: "Þó þú langförull legðir sérhvert land undir fót", eftir Stephan G. Stephansson, og fæ eg ekki betur séð, en að sú þýðing sé fyrirtaks góð. — Árið 1902 skrifaði Eggert langa og ágæta ritgerð á ensku um bókmentaiðju Vestur-Íslendinga, og ætlaði hann í fyrstu að láta hana birtast í tímariti, sem gefið var út í Ontario. En þegar til kom, hætti hann við að senda hana, og hefir hún aldrei verið prentuð, svo eg viti. — Eggert var skáld í insta eðli sínu. Hann var ef til vill ekki svo mikið ljóðskáld sem sagnaskáld, þó hann að vísu bæri manna bezt skyn á þær tegundir skáldskaparins; en hann var leikritaskáld svo gott, að óvíst er að nokkur Íslendingur, sem sjónleik hefir samið, hafi verið gæddur meiri gáfu í þá átt. Og leiklistina skildi hann frábærlega vel og hafði af engu meiri unun, en að horfa á góðan leik.

En á bezta skeiði æfinnar var Eggert svo bundinn við blaðamensku og önnur opinber störf, að hann hafði engan tíma til að sinna skáldskapnum; og þess vegna liggur svo lítið eftir hann af frumsömdum skáldverkum. Hann reyndi aldrei mikið til að koma þeim á framfæri, og hefir, ef til vill, á síðari árum eyðilagt handritin að þeim leikritum, sem hann samdi í æsku. En hann unni íslenzkum skáldskap af heilum hug, og studdi að því manna bezt, einkum meðan hann var ritstjóri "Heimskringlu" og "Aldarinnar", að vestur-íslenzk skáld og hagyrðingar gætu birt ljóð sín og sögur í blöðunum. Og það er rétt, sem Stephan G. Stephansson segir í hinu fallega kvæði, er hann orti til Eggerts vorið 1913, og prentað er í "Andvökum" (4. bindi):

"Það hvílir svo á samvizkunum
flestra:
Ef satt sé greint, þá liggi efst á
baug,
Þú hafir fleytt því fyrsta og skásta,
vestra,
Sem forðað gat, við yrðum helzt að
draug."

Og Eggert var það meðfætt, að vilja láta gott af sér leiða, og vilja hjálpa þeim, sem börðust fyrir góðu málefni og áttu í vök að verjast. En hann var maður yfirlætislaus og kærði sig lítið um, að það væri í hámælum haft, sem hann gerði öðrum til greiða og hjálpar; og þess vegna lá það oftast í þagnargildi. Eða eins og Stephan segir í kvæðinu til hans:

"Þér tekst, að alténd sumt það sitji
í skugga,
Til sigurs upp er starf þitt hefir flutt,
Þú hengdir ekki í allra búða glugga
Hvert ómak þitt, né hvar þú hefir
stutt.
Því sá kann einn með ábötum að
selja:
— Og yfir taxta vogar-lóðs og
máls —
Sem eignast sjóð, sem enginn fær
að telja,
Af ómyntuðum greiða-verkum
sjálfs."

Meðan Eggert var ritstjóri "Heimskringlu, kyntist hann mörgum málsmetandi mönnum, enskum og íslenzkum, og eignaðist marga góða vini þá og síðar. En hann var allra manna trygglyndastur, og sannur vinur vina sinna. Enda þótti honum spakleg þessi heilræði í Hávamálum:

"Vin sínum
skal maðr vinr vesa,
þeim ok þess vin."

og

"Vin þínum
ves þú aldrigi
fyrri at flaumslitum."

Og eg man eftir því, að hann lagði sérstaka áherzlu á þessi vísuorð, þegar hann eitt sinn á yngri árum las mér Hávamál, sem hann virtist skilja mjög vel, og áleit mætust allra norrænna ljóða. — Eggert kyntist snemma skáldinu Stephani G. Stephanssyni, og voru þeir innilegir vinir alla tíð. Eggert var með þeim allra fyrstu til að sjá, hversu ágætt og frumlegt skáld Stephan var; og hann dáðist að hinum sterku, skáldlegu tilþrifum, sem svo koma í ljós í kvæðum hans, og hinni miklu hreinskilni og djúpsæi, sem einkenna þau. Og hann áleit ekkert íslenzkt skáld Stephani framar. — Í stjórnmálum fylgdi Eggert stefnu Conservative flokksins í Canada, frá því fyrsta til hins síðasta Og hann hafði sérlega mikið álit á hinum fræga stjórnmálamanni og forsætisráðherra, Sir John A. Macdonald; og kyntist hann snemma Sir Hugh J. Macdonald (syni Sir John's) og urðu þeir góðir vinir, og hélst sú vinátta meðan þeir lifðu báðir. Á yngri árum kyntist Eggert einnig skáldinu Charles Mair, og var hlýtt til hans, og hafði miklar mætur á sumum skáldverkum hans, eins og til dæmis: "Tecumseh" og "The Last Bison". Og ávalt taldi Eggert meðal sinna beztu vina prentarana, sem unnu með honum við "Heimskringlu" og "Öldina", og eins Eyjólf Eyjólfsson frá Dagverðargerði á Fljótsdalshéraði, sem svo vel og drengilega studdi "Heimskringlu" á þeim árum, er efnahagur hennar var næsta þröngur. — Eggert hafði um mörg ár bréfaviðskifti við ýmsa merka mentamenn, eins og þá: Dr. Valtýr Guðmundsson í Kaupmannahöfn; Eirík Magnússon, M. A., í Cambridge á Englandi; J. C. Poestion í Vínarborg; M. phil. Karl Kuchler á Saxlandi; séra Kjartan Helgason í Hruna á Íslandi; Luther Burbank, jurtafræðinginn heimsfræga í California, og marga fleiri.

Mjög sjaldan kom Eggert fram á opinberum samkomum, og var þó í raun og veru prýðis vel máli far-

inn; en hann var ekki framgjarn maður að eðlisfari, og það var eins og hann vildi draga sig í hlé á öllum mannamótum. Samt var hann jafnan glaður og skemtinn í hópi vina sinna og vandamanna; þá var hann ræðinn, og sagði svo vel frá, að yndi var á að hlýða. — Eg heyrði hann aðeins einu sinni flytja erindi á opinberri samkomu. Það var sumarið 1890, þegar Íslendingar í Winnipeg héldu í fyrsta sinn "Íslendingadag". Hátíðin var haldin í hinum svonefnda Victoria-garði á Rauðárbakkanum, og var þar samankomið fjölmenni mikið, og þar á meðal margir nafnkendir menn, bæði innlendir og íslenzkir, svo að sjaldan hefir verið meira mannval saman komið á íslenzkri samkomu hér vestan hafs. Þar voru þeir: Einar Hjörleifsson Kvaran, Gestur Pálsson, séra Jón Bjarnason, Jón Ólafsson, Kristinn Stefánsson, W. H. Paulson og Eggert Jóhannsson; og fluttu þeir allir ræður, ef eg man rétt, eða lásu upp frumort kvæði, að undanteknum Gesti Pálssyni, er var ekki frískur þann dag. Mæltu þeir allir á íslenzka tungu, nema Eggert; og W H. Paulson, sem var forseti dagsins, talaði bæði á ensku og íslenzku. Ræða Eggerts var skrifuð, og las hann hana skýrt og áheyrilega, og vakti hún mikla, eftirtekt, því hún var snildarlega samin og efnisrík. Á meðal hinna innlendu merkismanna, sem þar voru staddir og fluttu ræður, voru þeir: Schultz fylkisstjóri, Taylor Bandaríkja-konsúll, Scarth sambandsþing maður og Col. Thomas Scott; og var auðheyrt á orðum þeirra, að þeim fanst mikið til ræðu Eggerts koma, og tóku þeir til greina ýms atriði, sem í henni voru, og fóru lofsamlegum orðum um Íslendinga.

Og það var Eggert Jóhannsson, sem fyrstur allra manna hvatti til þess, að Vestur-Íslendingar héldu árlega "Íslendingadag" (sbr. ritgerðin: "Íslendinga-hátíð", í Heimskringlu 19. júlí 1888). Hann var og fyrsti maðurinn til að rita um málefni íslenzkra verkamanna í Winnipeg, og að hvetja þá til að mynda með sér félagsskap; og hafa margir þeirra borið hlýjan hug til hans síðan.

Þegar Eggert hætti við blaðamensku, árið 1897, fluttist hann og fjölskylda hans til Nýja Íslands, og dvaldi þar tvö ár, og var hann um tíma kennari við alþýðuskóla í hinni svokölluðu Ísafoldarbygð. Og þó hann hefði aldrei á kennaraskóla gengið, þá þótti hann samt ágætur kennari; enda stundaði hann það starf með frábærri nákvæmni og alúð. Og að líkindum hefði hann haldið lengur áfram við það starf, ef honum hefði ekki alt í einu boðist lífvænlegri staða, því að um vorið 1900 komst hann að skrifarastörfum í landskjalastofu (Land Titles Office) Manitobafylkis. Eftir það dró hann sig smátt og smátt út úr öllum félagsskap, og var mjög lítið eða ekkert við íslenzk mál riðinn upp frá því. En hann leysti hin nýju störf sín af hendi með mikilli vandvirkni og samvizkusemi, eins og alt annað, sem hann tók sér fyrir hendur að gera.

Í trúmálum var hann frjálslyndur. En hann talaði mjög sjaldan um trúarbrögð, og hélt sér alveg utan við öll kirkjumál. Og eg man ekki

til þess að hann væri nokkurntíma í söfnuði, eða heyrði nokkurri sérstakri kirkju til. En á fyrri árum, í Winnipeg, sótti hann all-lengi og stöðugt Congregational kirkjuna, einkum á meðan séra J. B. Silcox var þar prestur. Á þeim presti hafði hann mikið álit. Enda var séra J. B. Silcox mörgum Íslendingum hjartfólginn, fyrir sakir hinna miklu mannkosta hans og ljúfmensku; og hann var einnig frábær kennimaður og gáfumaður. — Til annars prests hér vestan hafs bar Eggert sérlega hlýjan hug, en það var dr. Rögnvaldur Pétursson. Eins hafði hann mikið álit á séra Kjartani Helgasyni í Hruna á Íslandi. Þeir kyntust fyrst veturinn 1920, þegar séra Kjartan ferðaðist um íslenzkar bygðir í Canada og Bandaríkjunum, og skrifuðust þeir á eftir það. Einu sinni sendi Eggert séra Kjartani trjáfræ, og séra Kjartan sendi honum aftur á móti íslenzkt blóma- og jurtafræ, og þar á meðal melfræ, sem Eggert sendi strax til Luther Burbanks í California. — En þó Eggert hefði miklar mætur á þessum mikilhæfu prestum, sem hér eru nefndir, og væri vinur þeirra, er samt alveg óvíst, að hann hafi fylgt þeim að öllu leyti í trúarskoðunum; því að álit hans á mönnum fór ekki eftir því, hvaða kirkju þeir heyrðu til, heldur eingöngu eftir mannkostum þeirra og gáfum.

Haustið 1912 fluttist Eggert og fjölskylda hans vestur á Kyrrahafsströnd, og settist að í Vancouverborg. Hann hafði tvisvar áður farið snögga ferð vestur að hafi, þótti þar fallegt og langaði til að eiga þar heima; og svo voru líka systur hans þrjár búsettar þar á ströndinni — í Seattle, Wash. En það, sem þó aðallega kom honum til að breyta um bústað, var það, að heilsa hans var að bila, og að honum þótti veturnir í Manitoba langir og kaldir, og vildi hann því komast í mildara loftslag. Hann fékk líka sömu atvinnu þar vesturfrá og hann hafði haft í Winnipeg, síðustu árin þar, nefnilega skrifstofustörf í landskjalastofu (Land Titles Office) fylkisins. Fyrstu fjögur árin, sem hann var í Vancouver, bjó hann í Grandview; en svo keypti hann stórt og vandað hús í Fairview, og bjó þar það sem eftir var æfinnar. Hann keypti líka eina eða tvær ekrur af landi á Gambier-eyju, sem er um 20 mílur enskar frá Vancouverborg. Þar bygði hann dálítinn sumarskála og nefndi "á Odda". Og dvaldi hann þar ásamt með konu sinni og börnum eins oft og hann gat því við komið. Þótti honum þar skemtilegt að vera, við barm náttúrunnar og fjarri öllum hávaða og skarkala borgarinnar. Þar á Odda er yndisfagurt útsýni, og sumarskálinn veit svo vel við hafrænunni og sólarlagi. Hann mintist oft á það í bréfum sínum til mín, hversu mikið yndi hann hefði af því að dvelja í þessum fagra sumarbústað sínum, hreinsa til í kringum skálann og hlúa að blómum og plöntum, sem hann hafði gróðursett þar. Og þar mun hann hafa gróðursett íslenzka hvönn, og ef til vill fleiri íslenzkar jurtir.

Heimilislíf Eggerts var eitthvað hið ákjósanlegasta og ánægjulegasta, sem hugsast getur. Hann átti elskulega konu fyrirtaks fríða og myndarlega, sem fyrir flestra

hluta sakir má telja í fremstu röð íslenzkra kvenna hér vestan hafs. Hún er sérlega vel að sér til munns og handa, og kann svo vel til hússtjórnar, að hún á fáa sína líka. Heimili þeirra Eggerts og Elínar var ætíð fyrirmyndarheimili. Börnin voru gáfuð og myndarleg og háttprúð. Og Eggert var mikið um það hugað, að þau gætu mentast sem allra bezt; enda hlutu þau öll góða mentun og stunduðu nám við æðri skóla. Elzti sonurinn, Lawrence, útskrifaðist frá Manitoba háskólanum vorið 1913, og las lögfræði bæði í Manitoba og British Columbia, og hefir gegnt málafærslustörfum í Vancouver um langt skeið, og er nú meðlimur eins elzta lögfræðingafélagsins þar. Hinir synirnir, Joseph og Alexander, náðu einnig háskólamentun og eru í miklu áliti, og hafa lengi haft mikilsvarðandi störf á höndum. Þeir Lawrence og Joseph voru í Canadahernum í stríðinu mikla, og var Lawrence lautinant í flughernum (Royal Flying Corps á Englandi). — Allar dæturnar náðu hárri skólamentun, og lærðu jafnframt hraðritun. Ellen, elzta dóttirin, er gift Roane Thorpe lögmanni í Los Angeles í California; en þær Ena og Lillian eru ógiftar og eru hjá móður sinni í Vancouver.

Þau ár (1912—16), sem eg dvaldi í Vancouver, B. C., átti eg heima skamt þaðan, sem Eggert bjó, og sá eg hann iðulega. Hann var vanur að koma heim til mín á sunnudögum, því að um aðra daga var ekki að ræða. Hann vann alla virka daga á landskjalastofunni í New Westminster. Liði einhver helgidagur svo að eg sæi hann ekki, þá fanst mér, að eg hafa mikils mist. Svo vænt þótti mér um hann, og svo mikla ánægju hafði eg af að tala við hann. Til hans leitaði eg oft ráða, um eitt og annað, og bar ótakmarkað traust til hans, því að hann reyndist mér eins og bezti bróðir frá því fyrsta til hins síðasta. Hann var hjartfólginn vinur minn og sannur velgerðamaður. — Eg man eftir því, að hann hafði sérstakt yndi af því, að ganga um vissar stöðvar í Vancouver og grendinni, eins og til dæmis: Stanley Park (lystigarðinn fræga), Litlafell, Shaughnessy-hæðir og Point Grey. Hann var röskur göngumaður og virtist ekki taka það nærri sér, þó hann gengi margar mílur hvíldarlaust. Og þó við færum sömu leið aftur og aftur, þá gat hann altaf bent mér á eitthvað nýtt, sem eg hafði ekki áður tekið eftir. Einkum þótti honum fallegt útsýnið frá Litlafelli. Og fjöllin fyrir norðan Burrardfjörðinn voru í hans augum undrafögur og tilkomumikil, og þau mintu hann á viss fjöll á Íslandi. Hann elskaði þetta land, en þó einkum Kyrrahafsströndina, af því að þar var mild veðrátta og stuttur vetur, og af því að þar voru svipmikil fjöll og frjósamir dalir, og grænir skógar, svalandi fjallaloft og hressandi hafgola; og hann trúði því staðfastlega, að Canada ætti mikla og bjarta framtíð. En þó honum þætti svona vænt um þetta land, þá unni hann Íslandi þrátt fyrir það.

Eg man það glögt, þegar Stephan G. Stephansson kom vestur á Kyrrahafsströnd í febrúarmánuði 1913. Íslendingar í Voncouver höfðu boðið honum þangað vestur, til þess að

vera í miðsvetrarsamsæti því, er íslenzka félagið "Kveldúlfur" (í Vancouver) stofnaði til, þá um veturinn. Þá var hann um tíma gestur Eggerts Jóhannssonar. Komu þeir oft til mín um það leyti, og var yndi að hlíða á tal þeirra. Stephan hafði einu sinni áður heimsótt mig, og þá var Eggert líka með honum. Það var haustið 1908, þegar Stephan ferðaðist um bygðir Íslendinga, bæði í Bandaríkjunum og Canada, og las upp kvæðaflokk eftir sig. Þá átti eg heima í Manitoba. — Þann tíma, sem Stephan dvaldi í Vancouver, voru þeir Eggert og hann mikið saman. Og nokkru áður en Stephan fór heimleiðis, flutti hann kvæði, sem hann hafði ort til Eggerts. Það var í samsæti, sem haldið var eitt kvöld í húsi Þorsteins S. Borgfjörðs, sem líka var góður vinur Stephans. Það samsæti var eitt hið ánægjulegasta, sem eg man eftir. Að líkindum hefir Stephan verið búinn að láta Eggert vita, að hann ætlaði að flytja honum kvæði þetta kvöld, en ekki lét Eggert það í ljós á nokkurn hátt. Stephan flutti kvæðið snildarlega, en Eggert hlýddi á með mikilli eftirtekt, en á andliti hans sást engin breyting frá því, sem maður átti að venjast. Og þó var hann í hjarta sínu hrifinn af kvæðinu; en ekki samt svo að skilja að hann áliti sig verðskulda það lof, sem í kvæðinu var fólgið; heldur vegna hins: að hann fann svo vel hinn hlýja og einlæga vinarhug, sem skáldið bar til hans — skáldið, sem hann áleit í langfremstu röð allra íslenzkra skálda. En hann hafði stjórn á geðshræringum sínum og tilfinningum, og lét þær sjaldan í ljós á almannafæri. Eg sá hann aldrei öðruvísi en stiltan, glaðan og viðmótsþýðan. — Hingað til hafði Eggert aldrei verið þakkað opinberlega fyrir hið mikla og góða starf hans í þarfir vestur-íslenzkrar blaðamensku. Viðurkenningin frá vestur-íslenzkum almenningi var svo undur hægfara og lét hljótt um sig. En Stephan G. Stephansson sá og skildi kosti Eggerts Jóhannssonar og kunni að meta það, sem hann (Eggert) hafði gert fyrir Vestur-Íslendinga; og því kvað hann til hans hið gullfagra kvæði, er hann flutti í samsætinu í Vancouver í marzmánuði 1913. Það endar svona:

"Þér óskar heilla æskan fagurlokkuð,
Og elli-reynslan, vösk en kalinhærð.
Þær kannast við, þú varst þeim báðum nokkuð,
Alt vinhollara en þökkin sem þú færð —
En trú því samt, að ljóðin okkar langa
Að láta að þeim, sem unnu oss fyrir gýg,
Og vita engan þann til grafar ganga
Með gæfu sinnar leynt og óbætt víg.

"Þú væntir þér, í haustins skugga hljóðu,
Að hverfa inn, svo lítið beri á,
Þú varpar um þig vorsins ljósa-móðu,
Er vestan-þíðan stafar fjöllin blá —
Er um vor höfuð hálfar aldir kvelda,
Þá hallar nótt, af stigum ljóss og sanns,
Og þá fer senn að byrja að aftur-elda
Um efstu sporin hógláts snildar-manns."

Haustið 1917 hætti Eggert að starfa á landskjalastofunni í New Westminster, B. C.; og eftir það hafði hann enga stöðuga vinnu. — Æfikvöld hans var kyrt og bjart, og hann undi sér meðal bóka og blóma og barnanna sinna síðustu árin, sem hann lifði. — Þann 30. dag desembermánaðar 1929 andaðist þessi góði og elskulegi maður, að heimili sínu (1075 West 11th Avenue) í Vancouverborg, á sjötugasta aldurs-

ári, og var hann búinn að vera veikur all-lengi. Hann hafði látið í ljós nokkru áður en hann dó, að hann vildi að lík sitt yrði brent, og var það gert.

Æfistarf Eggerts Jóhannssonar var mikið og gott, og áhrifin af lífi hans munu lengi vara. Hann var sannur afbragðsmaður, með göfugri sál og mikilli skapfestu; maður, sem vinir hans máttu treysta í blíðu og stríðu. Hann var svo góður heimilisfaðir, að betri getur ekki. Hann ávann sér traust og virðingu allra, sem umgengust hann. Og allir höfðu gott af því að kynnast honum. Og það mætti segja um hann það sama og Col. Ben. G. Whitehead sagði um Magnús lögmann Brynjólfsson, að **heimurinn hefir grætt á því að hann lifði í honum.**

Elfros, Sask.,

1 maí 1930.

---

# Hví skyldi eg hryggjast?

Hví skyldi eg hryggjast á hausti.
þó hrynji af greinunum blöð?
— Þau losna við líkamleg fjötur,
og lyftast í vindblænum glöð.

Því æfistarf þeirra er endað,
— þó oss virðist sumarið stutt, —
En yndið, sem augum þau veittu
er andans — sem burt hefir flutt.

Og líkaminn visni mun vafinn
í vetrarins drifhvíta lín. —
Hann sameinast moldinni mjúku,
þá mildirík vorsólin skín.

En yndið, sem augum þau veittu,
er aflgjafi hjarta og sál.
því fegurðin talar og túlkar
hið tignasta alþjóða mál.

**Jakobína Johnson.**

# Til Þjóðræknisfélaga.

Eftir Þorskabít.

Þér, landar, sem í leiðangurinn glæsta
nú leggja viljið heim á sumri næsta,
að færa ræktarfórnir ættjörðinni,
— er flestir enn þá geyma í skíru minni —
á hetjualdar helgum Iðavelli,
þar heillavættir búa í hverju felli.

Nú látið sjá, að lifir andinn forni,
sem lýsti fyr á þúsund ára morgni,
þá hugvit feðra harðstjórn reyrðu böndum
og hófu lýðvald fyrst á Norðurlöndum.
Svo fullkomið í flestum réttargreinum,
að finst ei enn þá slíkt hjá þjóðum neinum.

Nú látið sjá, að synir bæði og dætur
þér séuð þeirra, er árla risu á fætur,
að gróðursetja göfga þjóðarmeiðinn,
er gréri og óx upp—kristinn bæði og heiðinn.—
Af meiði þessum öll við greinar erum
og ættarmótið flest með gleði berum.

Nú látið sjá, að séuð ekki gleymin,
og sízt af nafni og þjóðerninu feimin.
Og látið engar firrur trufla friðinn,
né flokkaríg og dægurþrasa kliðinn.
Og hrindið öllum andstæðum úr vegi,
svo eining hugar ferðum ráða megi.

Nú ríður á, í orði bæði og verki,
að óræk sýnum þjóðrækninnar merki.
Því safnið liði, sunnan, norðan, vestan,
— nú sóma Íslands gera þarf sem mestan, —
þess verður meiri hagur þess og hróður
á heiðursdegi vorrar öldnu móður.

Þó fært ei henni gripi dýra getið
með gullnu skrauti, er altof hátt er metið,

og enginn fylgi orlofs gjafa-sjóður,
er ástúð barna kærust hverri móður.
Sín fjarlæg börn að finna, sjá og heyra
og faðma blítt, er öllum gjöfum meira.

Þér ungu menn og meyjar æskurjóðar,
sem morgunblóm í akri nýrrar þjóðar,
sú ferð ei gæti máðst úr ykkar minni,
en myndir dýrar geyma framtíðinni.
og listaeðli ykkar jafnvel glæða
og auka þrá til sannra lífsins fræða.

Ef feðralandið fengjuð sjálf að skoða
í fögrum skrúða kvölds og morgunroða,
þér mynduð sjá, að satt þeir öldnu skrafa,
er sagt af Íslands fegurð ykkur hafa.
Í sannleik, enga sýning getur fegri,
að svip og listaprýði tignarlegri.

---

Eg sé í anda bát að landi bruna
og birtast augum sjálfa náttúruna
í allri dýrðar eining hafs og stranda,
sem ótal liti í móðu saman blanda.
Til beggja handa blasa röð af fjöllum,
sem breiddur faðmur sé á móti öllum.

---

Svo brautargengis bið eg ykkur öllum
og bjarta daga á fornum goðavöllum;
að lesið móðurbros á hverju blómi
og blessun öðlist lands í helgidómi
Og treyst að verði tengsli ættarbanda,
í trygð og góðvild milli beggja landa.



# Í hripum.

Eftir Steingrím Matthíasson.

Frá fornu fari hefir það tíðkast hér á landi, að ýmiskonar varningur bæði dauður og lifandi hefir verið fluttur í hripum. Þegar fjölskyldur fluttust búferlum bæja eða sveita á milli var það algengt fyrrum að reiða börn í hripum. Hitt mun sjaldgæfara að fullorðið fólk hafi verið flutt þannig, nema ef vera skyldi einhverjir farlama dvergvaxnir aumingjar og ómagar. Þó er þess getið í einni af fornsögum okkar (Ljósvetningasögu 20. kap.), að tveir fullorðnir menn voru fluttir í hripum bæjarleið, í sínu hripinu hvor, á sama hesti, og kálfur að auki ofan á hvorum þeirra. En tildrögin voru þau, að Eilífur bóndi í Gnúpufelli í Eyjafirði fann sér skylt vegna mágsemda við Þorkel hák, að hefna hans með því að drepa Þorbjörn rindil, þann er Guðmundur ríki hafði sent norður að Öxará til að ráða niðurlögun Þorkels. Þess er getið í sögunni að áður en Eilífur komst í færi við Rindil hafði Rindill étið skyr "ok mataðist fljótt, því skyrit var þunt". Eilífur setti kesjuna á hann miðjan "en skyrit sprændi ór honum ok upp á Eilíf". Þegar Guðmundur nú frétti víg Rindils varð hann óður og uppvægur til hefnda og fór eftir Eilífi. En Eilífur komst undan ásamt förunaut sínum, að Saurbæ. Þar bjó þá Hlenni hinn spaki og hitti svo á, að hann bjó ferð húskarls síns er skyldi flytja kálfa í Seljadal (sem nú kallast Sölvadalur). Þeir félagar biðja Hlenna ásjár. Hann leifir þeim að ganga í bæinn og verjast þaðan, en í því kemur Guðmundur og heimtar þá framselda, ella muni hann brenna upp bæinn. Hlenna þykir hart að láta drepa mennina fyrir augum sér og gerir Guðmundi þá tillögu að hann skuli senda þá í Eyrarskóg handan við ána og geti Guðmundur tekið þá þar. Guðmundur segir: "Viltu því heita at þeir komi þar, þá mun ek þann kost taka, því at jafnt þyki mér heit þín sem handsöl annara manna."

Síðan gekk Hlenni inn og segir þeim Eilífi hótanir Guðmundar og vill þá Eilífur ganga út og forða því að bærinn verði brendur. En Hlenni segir þess ekki þörf og finnur annað ráð. "Nú skuluð þit fara yfir í Eyrarskóg með þeim hætti, at í sínu hripi skal vera hvárr ykkar, ok bera á ykkr gras, en þá skal liggja kálfur á hvárum ykkrum, ok má vera at Guðmundr sjái ekki þetta undanbragð fyrir reiði sakar. En ef ykkr ber skjótt framhjá, þá kipp þegar knappinum ór hripsgrindinni enda mun þá auðna ráða,,.

"Svá var um búit sem Hlenni mælti, ok er húskarlinn kom yfir á, ok í skóginn, þá drifu þeir Guðmundr í móti þeim. Þá mælti Guðmundr: "Hví eru þeir Eilífr svá seinir?" Hann svarar: "Ek ætla

at þeim þykki eigi til öls boðið, en þó váru þeir búnir er ek ók". Fer hann nú skjótt framhjá þeim Guðmundi og hleypir þeim brátt niðr úr hripunum, en þeir hlupu í skóginn ok til Gnúpufells."

Guðmundur sá þá um seinan, að hann hafði látið gabbast og mælti: "Þeir hafa verið í hripunum ok sé ek nú eftir hversu hestrinn sté fast at grótinu er hófarnir lögðust niður. Nú mun Hlenni eigi þykkjast logit hafa ok er hann vitr maðr, enda snúum nú eptir þeim." Síðan fóru þeir í Gnúpufell —— o. s. frv. Ef gjört er ráð fyrir að mennirnir í hripunum hafi vegið 150 pund hvor en kálfarnir grasið og hripin 70 pund hvoru megin, þá hefir hesturinn borið um 440 pund og engin furða þótt hann stígi þungt niður með þá byrði. Þetta dæmi hefir verið notað til að leiða líkur að því, að hestar í fornöld hér á landi hafi verið stærri og sterkari en nú gjörast

Því hefir hins vegar verið svarað þannig af öðrum, að af þeim hestabeinum, sem fundist hafa í haugum frá fornöld, verði ekki séð, að hestar fornmanna hafi verið neitt stærri en hestar vorir nú (Daniel Bruun og H. Winge) Enn fremur hafa ýmsir borið því vitni, að íslenzkir hestar hafa oft verið látnir bera klyfjar er vógu skippund (320 pund og jafnvel upp að 25 lýsipundum (400 pund), og Þorv. Thoroddsen hefir það eftir Eggert Ólafsyni "að duglegir áburðarhestar hafi verið látnir bera skippund dagleið eða freklega það, en hinir sterkustu íslenzku hestar geti farið þingmannaleið með 20 fjórðunga bagga, 400 pd. alls" (sjá Lýsing Íslands 4 b. bls 32). Eftir því að dæma ætti þá vel að hafa tekist Hlenna, að koma Eilífi og förunautum hans yfir í Eyrarskóg í hripunum ásamt kálfunum, því leiðin hefir verið örstutt.

Mörgum er gjarnt að rengja margt af því sem ótrúlegt virðist í sögum vorum, og kalla það kviksögur einar og skáldaýkjur. En enginn skal að órannsökuðu máli segja vora söguritara fara með ósatt mál. Og í þessu máli vil eg skora á Ungmennafélag Eyjafjarðar að gera tilraun. Þannig, að fenginn sé duglegur hestur og hrip og tveir þriggja vikna kálfar, láta síðan tvo fullvaxna ungmennafélaga í hripin, hylja þá grasi og láta kálfana ofaná. Síðan skal farið með klárinn þannig klyfjaðan, frá Saurbæ, yfir ána og austur yfir á móts við Möðruvelli, þar sem Eyrarskógur mun hafa staðið til forna. Eg efa ekki, að vistin í hripunum hafi verið og muni enn reynast fremur óþægileg mönnunum og ekkert nota legt fyrir þá þegar þeim snögglega væri hleypt úr hripunum.

En hvað um það, órassbrotnir ættu þeir að verða af fallinu ef ekki væri því verri landtaka undir.

Eg ætla nú að segja ykkur frá ferðalagi í hripum sem var ólíkt skemtilegra en þetta ferðalag Eilífs og förunauta hans.

Fyrir tæpum 50 árum síðan, þegar eg var 5 ára gamall, fluttist eg með foreldum mínum úr Reykjavík austur að Odda á Rangárvöllum, en leiðin þangað var þriggja daga klyfjagangur. Við Vorum fjögur börnin og það yngsta á fyrsta ári en það elzta tveim árum eldra en

eg. Auk okkar fóru með okkur tvær stúlkur og tveir eða þrír piltar, sem réðust til okkar í vist. (Öll búslóðin var flutt á 25 — 30 hestum, svo þetta var heldur en ekki ferðamannalest.

Eg og elzta systir mín Matthea vorum flutt í hripum og hef eg ekki fyr né síðar séð slíkan mannflutning. Yngsta systir mín var höfð í opnum kassa í klyfi á móti matarskrínu okkar, en næstyngsta systirin var reidd af ýmsum til skiftis.

Mér er fátt minnisstæðara frá bernskuárunum en þetta ferðalag austur, enda hafði eg hlakkað til þess í marga mánuði áður, eða frá því föður mínum hafði verið veitt prestakallið. Þá hafði hann skroppið austur "til að skoða brauðið", var mér sagt, og þótti mér það skrítið tilefni, og tilhlökkunarefni útaf fyrir sig, að vita hvernig þetta brauð væri á bragðið. Eg þurfti ekki lengi að bíða svars, því daginn eftir að hann kom að austan fékk eg mér reiðtúr á hnakknum hans sem geymdur var á kofforti upp á lofti. En Matthea systir mín settist á söðul móður minnar á öðru kofforti og nú riðum við í sprettinum austur að Odda. Við fórum að hnýsast í hnakktöskuna, sem spent var aftan við hnakk pabba, þá fundum við í henni nokkrar sneiðar af smurðu rúgbrauði með rúllupilsu og osti í ofanálag. Urðum við heldur en ekki glöð yfir þessum fundi, þarna var auðvitað sýnishorn af því hvernig "Oddabrauðið" leit út og smakkaði. Matthea beit í og gaf mér líkt og Eva Adam forðum. Brauðið reyndist okkur mesta ljúfmeti. Já, svona var þá Oddabrauðið, rauðseytt og ilmandi, og miklu betra en bakarísbrauðið í Reykjavík! Eg var strax þeirrar skoðunar að úr því brauðið væri betra í Odda en Reykjavík, væri sjálfsagt að vera þar.

Loksins rann upp sá dagur er ferðin var hafin austur að Odda, og eg settist í hripið annarsvegar á klárnum gegnt systur minni í hinu hripinu. Það hefir sjaldan farið betur um mig en í hripinu þessu því móðir mín hafði búið svo um með sessum og koddum að eg gat ýmist setið eða legið eftir vild. Einhver vinur minn hafði að skilnaði gefið mér lítinn fána á stöng, sem eg skorðaði fasta hjá mér í hripinu; og þar að auki hafði eg fengið brjóstsykur og annað sælgæti til að maula á leiðinni. Mér fanst eg vera einsog voldugur kongur í hásæti þar sem eg sat þarna í hripinu og sá um heim allan er við komum upp í Öskjuhlíðina og við blasti allt útsýni yfir Reykjavík og nágrennið með fjöllum í kring. Og nú færðist lestin smámsaman áfram yfir holt og mæla og heiðar austur á bóginn og altaf bar nýtt og nýtt fyrir augu, en ýmist riðu þau móðir mín eða faðir samsíða okkur til að líta eftir okkur hripabúunum og spjalla við okkur. Eg hef aldrei hvorki fyr né síður kynst jafn þægilegu og skemtilegu farartæki og þetta hrip var, en eftir fyrstu hrifninguna vaggaðist eg smám saman í værð og sofnaði langan dúr þar til lestin nam staðar og við náttuðum okkur á Kolviðarhóli.

Hinsvegar þótti mér leitt að vita, að Matthea systir mín undi sér hreint ekki í sínu hripi. Hún kvartaði um hristing og hoss og það

endaði með að hún var strax fyrsta daginn tekinn upp og reidd alla leið úr því En í stað hennar var sett ýmislegt skran í hripið til að vega á móti mér og mínu hripi svo ekki hallaðist á, og sætti eg mig brátt við þetta, en klárinn fór sína leið eftir sem áður — samur og jafn þó Matthea væri farin og skranið komið í staðinn.

Vel gekk ferðin alla leið austur, í góðu veðri. Það var seint í júní, náttúran var guðdómleg, flugur suðuðu og fuglar sungu og altaf var tilbreyting í landslaginu, góðir vegir og slæmir á víxl, holt og móar eða mýrar á báða bóga, stundum sáust rjúkandi hverir, stundum vötn og lækir og ár, en fjöllin móleit, brún eða blá, sum nærri en önnur langt, langt í burtu, skjöldótt af snjó eða vafin í móðu svo að þau urðu nærri samlit himni og skýjum.

En þó skemtilegt væri í hripinu og gaman að taka eftir öllum þessum fyrirbrigðum, þá var líka góð tilbreyting að vera við og við tekinn niður og fá að rétta úr sér og hreyfa fæturna. Maður samgladdist hestunum yfir hvíldinni þegar áð var og þeir fengu að hressa sig á grængresinu, en ferðafólkið hnappaði sig saman til að rabba eða þiggja nestisskamt úr matarskrínunni. Matarlystin hafði sjaldan verið eins góð í Reykjavík eins og hérna úti undir berum himni. Gott var brauðið, en enn þá betra áttum við þó í vændum þegar við í ferðalok kæmumst í sjálft Oddabrauðið—eg hafði hugsað mér það eins og einn fjallaháan stabba í líkingu við fjallið Keili, vel hlaðinn úr einlægum vel-skornum brauðsneiðum öllum með smjöri og ýmsu ofan á.

Á leiðinni mættum við mörgum lestamönnum á leið í eða úr kaupstað. Skrítið var að sjá alla þá hesta oftast nær taglnhýtta hvern aftan í annan, því þá var varla að tala um öðru vísi samhnýtingu, og almenn sú trú að taglið á hestinum væri til þess eins af Guði almáttugum tilbúið, að hnýta mætti þar í einteymingsreypi með öðru hrossi eða bola í eftirdragi. En þegar okkar lest fór framhjá slíkum lestum kom það hvað eftir annað fyrir, að sjónfælnir klárar kipptu snögglega í, svo að stríkkaði á reipum og töglum — það brakaði í reipunum og stundum brustu þau og slitnaði þá lestin. Hestarnir sem úr slitnuðu stóðu þá kyrrir og hissa — en töglin slitnuðu aldrei og þótti mér það gegna mestri furðu. En satt að segja kendi eg sársauka í mínum eigin bæði fremri og aftari enda, af meðaumkun með vesalings klárunum, sem slitu milli sín reipin er þau teygðust milli taglstertsins annarsvegar og hrosshaussins hinsvegar en óhugðnæmust og þjösnalegust þóttu mér reipslitin þegar stór og feitur boli togaði á móti sterti. Þá var öll samúð mín óskift með stertinum og hlutaðeigandi hrossi.

Sem betur fer mun nú þessi heimskulega og sorglega misþyrming á skepnunum vera úr sögunni og hefir hætt smátt og smátt eftir að séra Ólafur Ólafsson ritaði og flutti sinn nafnkenda fyrirlestur: Hvernig er farið með þarfasta þjóninn? —

Eitt af því allramerkasta, sem fyrir mig bar á leiðinni var yfirferðin yfir stórárnar Ölfusá og Þjórsá.

